í stað grasi gróin og fáförult til Steinunnar, en það varð ekki langvarandi, því að nauðsyn brýtur lög. Þeir, sem voru að fæðast og deyja, spurðu ekki um hvað hún hefði brotið í bága við almenningsálitið, heldur hitt, að hún var eina manneskjan hér um slóðir, sem bar skyn á meðferð og hjúkrun sjúkra. Hún hafði lært eitthvað í þá átt ung, en svo var hún fædd hjúkrunarkona. Ekki einungis veitti hún framúrskarandi aðhlynning líkamlega, heldur fylgdi henni það vald yfir sjúklingunum, að þeir treystu henni algerlega. Hinn skarpi skilningur hennar á sálarástandi þeirra, flýtti oft fyrir bata meira en nokkuð annað. Og hinum — hjálpaði hún um styrk og frið til að fara með ró í huga yfir landamærin.

Þetta sama sumar komu þau séra Einar og kona hans, til að setjast hér að. Þau voru fyrir skömmu gift og áttu eitt barn, fallegan drenghnokka. Fólki féll yfirleitt vel við þau, en eg get ekki sagt að mér líkaði hann sem prestur. Ræðurnar voru sambland af skólastílnum og bókstafskenningum með töluverðum yfirlætisbrag, en í rauninni ósköp þunt og andlaust gutl. Maður fann greinilega, að hann hafði ekki ennþá öðlast nægilegan þroska, eða lífsreynslu til að moða úr.

Sumarið leið tíðindalaust þar til um haustið seint í september. Eg man altaf eftir þeim sunnudegi. Það var einn af þessum yndislegu haustdögum, sem koma hér stundum, — veðrið ekki ósvipað og í dag. Fjöldi fólks kom til kirkju, — vegir voru þurir og menn voru að létta sér upp og sjást, áður en veturinn setti að.

Hópar af fólki stóðu hingað og þangað og töluðu

um daginn og veginn — um haust-annir, uppskeru, dýrtíð, hreppsmál og pólitík, og hvað um annað, eins og gengur, þar til hringt var til messu og gengið í kirkju. Söngurinn gekk furðu vel og organistinn fór aldrei þessu vant ekki út af laginu. Prestur las textann úr Orðskviðunum 31. kap., 10. vers.

„Væna konu, hver hlýtur hana? Hún er mikils meira virði en perlur. Hjarta manns hennar treystir henni.“

Svo kom ströng hegningarræða, er fjallaði um synd og spilling og uppreistarhug kvenna nú á þessum síðustu og verstu dögum — algerða vöntun á kristilegri auðmýkt og umburðarlyndi — engin hugsun um að gegna heilögum skyldum kristinnar konu gagnvart heimilinu og mannfélaginu. Mintist svo á hvers konar hegning slíkum konum hefði verið úthlutað á dögum gamlatestamentisins. Og svipaður mannúðarandi skein í gegnum alla ræðuna. En hann var óvenju mælskur og andríkur. Það var auðheyrt, að vængjaþyturinn af slúðrinu hafði borist prestinum til eyrna, og örvað hugsanir hans alveg eins og hinna.

Og eg segi þér satt, nú var hlustað með athygli á guðsorðið. Bændurnir, er vanalega himdu dauflegir og hálfsofandi með höfuðin niðri á bringu, voru nú glaðvakandi og sátu teinréttir og báru yfir sér hreysti og karlmenskubrag. Ræðan átti áreiðanlega vel við sálir þeirra og gaf þeim öryggi. Sumir þeirra fundu með sjálfum sér, að þótt þá hefði hent einhver smávegis breyskleikasynd, þá mundi þó betra fyrir konurnar þeirra að taka ekki Steinunni sér til fyrirmyndar, ef þær ætluðu að halda mannorði sínu. Presturinn var ekki svo grænn, þótt hann ungur væri. Og

þeir sáu í huga sér, að það mundi verða auðvelt að kippa ýmsu í lag, sem að var í safnaðarlífinu, með svona góðum foringja. Á okkur konunum, svona flestum, var það auðséð, að við þurftum ekki að taka neitt af þessari ræðu að okkur; við höfðum meira en nóg af undirgefnisanda, auðmýkt og skyldurækni í pokahorninu. Engin tók neitt af þessu að sér, — allir vissu, að sú seka var Steinunn, og að til hennar var talað. —

Nú óx umtalið um allan helming, og þær, sem mest töluðu, fundu svo átakanlega til þess, hváð háar siðferðiskröfur þær gerðu. Þær skoðuðu sig sem nokkurs konar siðferðislega útverði í félagslífinu. Og ábyrgðin, er fylgdi embættinu, hvíldi þungt á þeim. Þetta gekk svo langt, að Ófeigur minn, sem þá var safnaðarforseti, var kominn á fremsta hlunn með að fara og tala við prest um þetta. En þess gerðist ekki þörf, því að drottinn tók þá í taumana, eins og ein kona hér í sveitinni komst að orði. Og eg held, að hún hafi haft eitthvað til síns máls. Stundum sýnist nauðsyn á að taumhaldið sé lagað.

Seinna um haustið veiktist drengurinn prestshjónanna; fékk einhverja óskapa innvortis veiki, — eiginlega vissi enginn hvað það var. Prestskonan hafði enga hjálp nema unglingsstúlku, sem lítið lið var í, þegar veikindi bar að höndum. Læknir var sóttur langar leiðir að. Hann gaf eitthvað af meðulum og sagði stranglega fyrir um hjúkrun og meðferð á drengnum. Kvað mest undir því komið, að fyrirskipunum sínum væri hlýtt, ef honum ætti að batna. En gaf þó mjög litla von um að hann lifði.

Seint um kvöldið, sama daginn og læknirinn fór,

sat presturinn einn inni í litlu skrifstofunni sinni. Á borðinu fyrir framan hann lá biblían opin. Hann hafði reynt að lesa, en gat ekki fest hugann við nokkurt orð. Það var gengið í krapahríð og óveðrið lamdi á glugganum; vindurinn hvein og hrikti ömurlega í hverri gátt. Stormurinn, er æddi úti, var eins og endurhljómur af hugsunum og sálarástandi prestsins. Hver stormhviða herti á nístandi kvíðahrollinum, er lá eins og farg á sálu hans, og smaug hverja taug. Hann reyndi að yfirbuga uppreisnina, harminn og hræðsluna, sem þjáði hann. Hann reyndi að biðja, í allri auðmýkt, í allri undirgefni. En hann fann, að það gat hann ekki heldur — Hann hrópaði á lífið fyrir drenginn sinn — lífið,— ríkt af starfi og vonum. Honum kom ekki til hugar annað líf — sá einungis dauðann fram undan. Hann hafði ekkert taumhald yfir hugsunum sínum, — hann stóð hjálparlaus og berskjaldaður gagnvart óttanum og skelfingunni, er ofsótti hann.

Hurðin opnaðist hægt og konan hans kom inn, föl og úrvinda af þreytu. Hún staðnæmdist innan við dyrnar og þau horfðust í augu andartak, og lásu þar hvort annars vonleysi. Það var eitthvað í svip hennar, sem hann kannaðist ekki við, og snöggvast var eins og köld hönd gripi um hjarta hans. „Er hann að—“ lengra komst hann ekki. — „Nei, — en honum er að versna“, svaraði hún og varirnar skulfu. — „Eg er hrædd — hrædd við þessa nótt —“. Hann tók um hendurnar á henni, sem voru kaldar og titrandi og sagði: „Við skulum reyna að biðja — biðja um að hann fái að lifa hjá okkur.“ — Hún kipti að sér höndunum og strauk þeim yfir ennið, eins og til

að hjálpa sönsunum. „Biðja! Eg hefi beðið og beðið síðan hann veiktist, — hver hugsun og tilfinning hefir verið bæn — auðmjúk bæn — og angistin í huga mínum er öflugri bæn en nokkuð, sem hægt er að koma í orð.“ Hún greip höndunum í örvænting fyrir andlitið og stundi.

„Guð hjálpi mér, eg get ekkert hjálpað honum ekkert!“

Svo leit hún upp og sagði í bænarróm: „Einar, þú verður að fara strax og sækja Steinunni, til að vera yfir honum.“ —

„Hvað? — Þú ætlast þó ekki til að eg fari að sækja hana. Hún getur ekkert gert, sem þú getur ekki.“

„Jú, ef nokkur hér getur bjargað lífi hans, þá er það hún.“

„Eg skal fara og sækja hverja af nágrannakonunum, sem þú vilt, til að hjálpa þér, nema hana.“

Prestinum fór eins og mörgum öðrum, að leggja fæð á þá, er þeir á einhvern hátt gera rangt til. Prestskonan hélt áfram, eins og hún hefði ekki heyrt hvað hann sagði: „Fólkið hér segir, að hún sé óviðjafnanleg hjúkrunarkona — að það fylgi henni einhver undarlegur kraftur, svo að sjúklingunum bregði oft til bata, þótt þeir sýnist langt leiddir, þegar hún sé komin.“

Þau horfðust aftur í augu — nú eins og tvö öfl, er börðust um, hvort væri sterkara, — og hún var ekki lengur biðjandi.

„Einar, ef þú sækir ekki Steinunni, þá fer eg eftir henni! — Ef hún gæti bjargað honum, þá — — —“

Og orðunum fylgdi sá sannfæringarkraftur, að hann fann, að hún meinti þetta. Konan hans, sem hingað til hafði verið eins og lamb — gerði alt eins

og honum þóknaðist — var nú orðin að ljóni. Veikt hljóð barst inn til þeirra úr herberginu, þar sem barnið lá, og hún hrökk við og hvarf inn þangað. En presturinn stóð eftir eins og höggdofa. — Orð og setningar runnu saman í óljósa heild, eða stóðu eins og skráð eldletri fyrir hugskotssjónum hans. — Sækja Steinunni og verða allra athlægi! Hann ætlaði sér að taka í lurginn á ýmsu, sem hann sá að var að, — stinga á kýlunum, segja til syndanna. — Og það fyrsta, sem hann reyndi í þá átt — — — sækja Steinunni. — Auðmýkja sig með því að biðja hana um hjálp — auðmýkja sig — auðmýkt! — Hvað var hann að boða öðrum? Hafði hann nokkuð sjálfur af því, sem hann var að boða? — Hann sá andlitin hvert eftir annað skæld af illgirni og háði — heyrði Mefistófeles-hlátrana alt í kring um sig, og á reiki innan um sá hann konuna sína þreytta og örvæntingarfulla, — og drenginn sinn veikan, hvítan og örmagnaðan. — Og aðrar myndir svifu honum fyrir sjónum af drengnum, glöðum, frískum, hlaupandi og hoppandi fram og aftur um húsið. Hann heyrði léttu sporin og glaða, skæra barnsróminn og hann fann litlu lófana strjúka um kinnar sér, og inst í vitund hans, innan um alt rótið, hljómaði í sífellu rödd: Ef hún gæti bjargað lífi hans — ef hún gæti bjargað! —

Án þess að átta sig í raun og veru á hvað hann gerði, fór hann fram í fordyrið og klæddi sig í yfirhöfnina; um leið og hann hnepti henni að sér, fann hann að eitthvað vott féll á hendina á honum — tár — svo opnaði hann hurðina og hvarf út í nóttina og óveðrið.





Það segir ekkert af ferðum prestsins þá nótt. En rétt um kl. 2 kom hann til baka með Steinunni. Hún fór fram í eldhús, fór þar úr vosklæðunum, þvoði sér og klæddi sig í hvíta línúlpu. Svo kom hún inn með þessari ró og þægilega fasi, sem henni var eiginlegt, og tók við stjórninni í sjúkrastofunni. Þar vakti hún svo nótt og dag yfir barninu, fylgdi í öllu ráðum læknisins og bætti sumu við frá sér. Vikum saman var hún þar yfir drengnum, því að honum batnaði, þótt hægt færi. Móðir hans sagði mér síðar, að sér hefði fundist, þegar Steinunn kom inn í herbergið um nóttina, að mesti óttinn um að hann dæi, hyrfi. — En Steinunn sagði mér, seinna er við áttum tal um þetta, að hún hefði verið algerlega vonlaus um bata fyrsta daginn. —

Og nú sýndi sig enn á ný, hvað almenningsálitið er hvikult. Þær, sem höfðu fordæmt Steinunni og verið prestinum svo hjartanlega þakklátar fyrir að láta sig skipta framferði fólks í söfnuðinum, voru ekki lengi að átta sig á því, að Steinunn hafði nú fengið fulla uppreisn í félagslífinu og var meira að segja komin í mjúkinn hjá prestshjónunum. Hún varð nú á skömmum tíma eins ákaflega eftirsótt, og hún hafði verið sniðgengin áður, — varð að nokkurs konar tísku, — því að nú vildu allir sýna henni velvild sína.

Prestshjónin höfðu þá sannfæringu, að þau ættu henni líf barnsins að launa. Þegar hún kvaddi og fór, þá sagði prestur eitthvað í þá átt, að hann gæti aldrei launað henni þetta. Steinunn þagði við andartak, horfði fast framan í prestinn um leið og hún rétti honum hendina til að kveðja og sagði: „Jú —

lúk upp munni þínum, dæm með réttvísi og rétt þú hlut hinna voluðu og snauðu."

„Hvað? Textinn, sem hann lagði út af í dag!"

„Já — og þetta var í eina skiptið, sem Steinunn lét á sér merkja, að hún hefði heyrt ræðuna, hvað þá vitað, að hún var stíluð til hennar. — En mér varð það ljóst í dag, að prestinum hafa ekki gleymst þessi kveðjuorð Steinunnar, og að fagra og hlýlega ræðan, sem hann flutti yfir henni, nú þegar leiðirnar skildu, var bragarbót. —"

Við vorum komnar að vegamótunum. Sólveig kvaddi og hélt leiðar sinnar, en eg stóð eftir hugsi. Ýmislegt, sem eg hafði heyrt um Steinunni frá fyrri árum, hafði skýrst fyrir mér í dag, og fengið dálítið annan blæ. Það var annað atvik úr lífi Steinunnar, önnur ferð, er hún hafði farið, sem mig langaði til að fá Sólveigu til að segja mér frá, en eg vissi, að það mundi ekki vera til neins að reyna það fyrst um sinn, ef hún fengist nokkurn tíma til þess. —

Berjaskjólurnar, kúffullar af ilmandi berjum, báru vott um, að við Sólveig í Lundi höfðum ekki farið í berjamó til að slæpast. Enda sátum við nú frammi á vatnsbakkanum og hvíldum okkur eftir erfiði dagsins áður en við legðum af stað heimleiðis.

Það var komið undir miðaftan, dagurinn fagur, og þægilegan svala lagði af vatninu, sem lá framundan, spegilslétt, eins langt og augað eygði. Ýmsum litum regnbogans sló á það, alla leið frá grágrænu niður í purpurabláma, eftir því hvernig ljós og skugga bar yfir vatnsflötinn. Góðviðrislegir skýjabólstrar risu lengst úti við sjóndeildarhringinn í norðri, og það var ekki erfitt að hugsa sér, að þar sæist fjallahringur í fjarska — að úti þar sem loft og lögur mættust, lægju rambygð fjöll. Bakkinn, sem við sátum á, var hár og klettóttur, og var þaðan fögur útsýn. Fram undan teygði gulbleikur sandurinn sig meðfram fjöruborðinu eins og silkiband, en að baki reis skrúðgrænn skógurinn, sem lítið eitt var farinn að bregða litum. Blá sólskinsmóða mildaði litina og sveif yfir landinu eins og óljós draumur.

Við sátum og spjölluðum svona um alt og ekkert,

eins og fólk gjörir, sem þekkist vel, og er í fullu samræmi. Og þögðum þess á milli og nutum friðarins, ytra og innra. Eg sat og hugsaði eiginlega ekki um neitt, nema svona að hálf-halda til haga himinfjöllunum, sem skýin mynduðu, og bera þau í huganum saman við fjöllin heima á Íslandi. Eg ætlaði að benda Sólveigu á þessa hrikafegurð áður en vindur kæmi úr einhverri átt, blési á fjallatoppana og sundraði öllu. En um leið og eg leit til hennar, og orðin voru rétt komin fram á varirnar á mér, sá eg að hún var niðursokkin í sínar eigin hugsanir, er tóku alla hennar athygli. Það lá í svip og augnaráði og því, hvað hún sat grafkyr, að hún var stödd einhvers staðar langar leiðir frá mér. Svo að eg horfði á hana um stund, án þess að segja orð. Alt í einu varð hún þess vör, leit upp, brosti til mín og spurði:

„Varstu að segja nokkuð?“

„Ekki upphátt, en eg var að hugsa um, að gaman væri að vita stundum, um hvað fólk hugsar, sem situr fast hjá manni, en sjáanlega er þó í mikilli fjarlægð. Eg var að hugsa um, hvað það væri gaman, undir þess háttar kringumstæðum, að geta brugðið upp gleraugum, er sýndu manni hugsanirnar, eða, ef til væru svo næm eyru, að hægt væri að heyra þær.“

Sólveig hló við og sagði: „Eg vildi ekki vera stödd þar á þingi, sem fólk hefði þess konar sjón og heyrn. Það skrítnasta er nú samt, að eg var einmitt að hugsa núna um manneskju, sem hafði mikið af þessari gáfu, og með henni undi eg mér æfinlega einkennilega vel.“

„Var það Steinunn gamla,“ spurði eg, því að mér var kunnugt um, hvað þeim var vel til vina.

„Já, það er eitthvað í loftinu í dag, litunum á vatn-

inu, skýjabólstrunum þarna norður undan, og jafnvel því, hvað landið liggur letilega fram á lappir sínar og sleikir sólskinið, sem verkaði svo á mig, og það var Steinunn, sem eg sat hjá og var að tala við í huganum. Við sátum hér aftur saman í grasinu, berjafatan mín full af berjum og Skuggi Steinunnar, dökkbrúnn indælis hestur, sem hún átti og keyrði á, var að nasla þarna undir rauðvíðisrunnanum. Veðrið og útsýnið öldungis það sama. Það var sem dagurinn hefði verið endurkallaður, tíminn hörfað til baka um eitt augnablik, árin horfið."

Sólveig þagnaði, svo að eg varð dauðhrædd um, að hún ætlaði að láta staðar numið þarna, en eg varð æfinlega ekkert nema eyru, þegar það datt í hana að segja mér frá ýmsu, sem komið hafði fyrir á fyrri árum hér í sveitinni.

„Segðu mér eitt, Sólveig. Hvers vegna man maður svona vel vissa daga eða stundir úr allri æfinni, þegar flest annað gleymist alveg jafnótt og það skeður?" spurði eg.

„Líklega af því, að þær stundir eru að einhverju leyti örlagaþrungnar, móta líf manns á einhvern hátt. Við vitum það sjaldnast, hversu oft smáatvik verða að sterkum örlagaþræði; til dæmis þennan löngu liðna dag gerði eg mér það til erindis að fara í berjamó, svo að eg gæti verið ein og út af fyrir mig, á meðan eg háði baráttu við sjálfa mig og tók ákvörðun, sem mér var mjög óljúft að gera. Eg hafði hugsað mér að ganga vestur í hólana, þar vex mikið af berjarunnum, en svo greip það mig alt í einu, þegar eg kom út, að ganga heldur norður með vatni. Kannske eg hafi valið þá leiðina vegna þess, að eg uni mér æfinlega svo vel við

vatnið ogölduhljóðið, kannske voru það líka forlögin, sem ullu því að eg fór ekki vestur í hólana, því að þá hefði eg ráðið mikilsvarðandi atvik æfi minnar á annan veg. Mér gekk greiðlega að tína berin og eg var komin hér rétt á móts við höfðann, þegar eg heyrði hófadyn og Steinunn keyrði fram á mig. Hún sá mig strax og kallaði til mín. Eg gekk yfir að veginum til hennar, og þegar hún sá, að skjólan mín var full af berjum, bauð hún að keyra mig heim. Eg afþakkaði og sagði henni, að eg væri ekki að fara heim strax og kysi heldur að ganga. Hún leit snögglega til mín þessum föstu, gráu greindarlegu augum, og án þess að segja orð veik hún Skugga út af veginum, steig út úr kerrunni og sagði:

„Við skulum ganga hérna fram á höfðann og hvíla okkur. Eg hefi keyrt hvíldarlaust síðan snemma í morgun, lengst norðan úr bygð, var að hugsa um að stansa hjá þér til að hvíla okkur Skugga minn, en úr því við mætumst hér, er alveg eins góður áningarstaður hérna á bakkanum.

Hún teymdi svo Skugga í forsælu undir víðirunna og svo settumst við niður. Eg var í aðra röndina glöð, að hitta Steinunni, en í hina ergileg yfir því, að fá ekki að hafa frið og vera ein.

„Ósköp ertu fálát og þungbúin, Sólveig. Er nokkuð að heima hjá þér? Eru ekki allir frískir?“ spurði Steinunn.

„Jú, það eru allir frískir heima, en — svo hélt eg áfram — eg er í þungu skapi og hálfgerðum ógöngum, en það greiðist úr öllu,“ sagði eg heldur stuttlega. „En þú ert svo glöð og hress, að eg sé að þér líður vel, Steinunn.“

Hún horfði á mig og sagði svo hægt: „Já, eg er glöð

og hress og mér hefir aldrei á æfinni liðið eins vel og síðan í vor, að Árni dó."

Það fór eins og leiftur í gegnum mig. Hún hafði bara einu sinni áður minst á Árna við mig, svo að eg sagði alveg forviða: „Steinunn! Var þér svona illa til hans, að þú gætir ekki unnað honum lífsins?"

„Það ætti þér nú að vera kunnugt um, Sólveig, að eg ann öllum manneskjum lífsins, og eg hefði fegin hjúkrað Árna, þangað til honum batnaði, ef þess hefði verið kostur. Eg ætla ekki að útskýra það neitt frekar, nema með því að segja þér sögu okkar Árna, séða frá minni hlið. Eg skal reyna að vera stuttorð, stikla bara á steinum, því að mér er leiðin vel kunn. Maður man altaf svo vel það sem miður fer.

Nokkru eftir að eg kom að heiman, giftist eg Árna. Um það leyti var verið að nema land í þessari bygð í óða önn. Við vorum ein af þeim, sem festum okkur hér heimilisréttarland og byrjuðum búskap á Brekku með mjög litlum efnum. En Árni var hagur smiður og ágætur verkmaður, svo að honum varð fljótt vel til með vinnu, og þegar hann átti ekki of annríkt heima fyrir, var hann út um alt við smíðar. Þess vegna gátum við, til þess að gera mjög fljótlega, bygt okkur snoturt og þægilegt heimili, að því er húsakynni og alt ytra útlit snerti.

En við bárum ekki gæfu til að vanda að sama skapi til smíðisins á innri máttarviðum heimilisins, samúð og samvinnu okkar á milli. Í stað þess að þroskast og vaxa saman, fjarlægðumst við hvort annað, uxum sundur smám saman. Til þess urðu ýmsar ástæður — fyrst og fremst skapgerð okkar, sem var afar ólík, drykkjuskapur og óreiða Árna, og það, að eg var svo oft að heim-

an, að minn hluti í heimilishaldinu trassaðist engu síður en hans. Þetta sé eg alt nú, en bara sumt var mér ljóst þau árin, sem heimili okkar var að liðast sundur.

Fyrsta skiptið, sem okkur varð alvarlega sundurorða og við sögðum upphátt það sem við höfðum að eins hugsað, og heldur meira, var eitt laugardagskveld. Eg var nýkomin heim frá því að stunda veika konu, sem dó úr lungnabólgu í höndunum á mér. Eg var þreytt og leið og tómleg í skapi, því að mér hefir æfinlega fallið þungt, þegar sjúklingar, sem eg stunda, deyja.

Þetta kvöld var haldin tombóla og dans til arðs fyrir eitthvað, sem eg man nú ekki hvað var. Árni vildi endilega að við færum þangað bæði, en eg aftók með öllu að fara. Í þeirri svipan kom maður vestan úr bygð til að sækja mig til konu sinnar í barnsnauð. Auðvitað brá eg við fljótt og bjó mig af stað með manninum, og rétt um sama leyti var Árni tilbúinn að fara á samkomuna. Hann varð ofsareiður, og þarna keyrðum við svo hvort í sína áttina. Og þar, þetta kveld, skildu í rauninni vegir okkar fyrir fult og alt. Eg var hjá konunni minn ákveðna tíma, og hafði ekkert mikið að gera þar, því að þau höfðu nægan vinnukraft. En þeim mun meira hugsaði eg um heimilishag okkar Árna, dagana sem eg dvaldi þar. Mér hraus hugur við myndinni af okkur þarna heima um kvöldið. Bál-ösku-reið reyndum við að meiða hvort annað í orði, eins og verstu óvinir, og þó ekki það, heldur eins og þeir einir geta gert, sem tekur sárt hvorum til annars. Þar kennir meira af beiskju og sársauka, en á milli óvina, kvölum og meiðslum, sem hertaka hugann og æsa, og lama hverja taug. Við vesalings manneskjurnar, sem verðum fyrir svona árekstri, stöndum, þegar okkur liggur mest á,

eins og blindingjar, sjónlaus, ráðþrota, svift hugsun og viti, kærleika og trausti á alt og alla. Við höfum lent í tröllahöndum, höfum verið flutt úr deginum og ljósinu inn í svartan hamarinn og sitjum þar bundin í myrkrinu með klaka um hjartað. — Um það bil, að hér var komið, var eg farin að hafa býsna góða hugmynd um, að Árni væri kominn langar leiðir frá mér á ýmsan hátt, og ef til vill orðin óbrúandi fjarlægð á milli okkar. Hjúkrunar-starfsemin var mér afar-kær, og hún fylti á mikinn hátt þau skörð og vonbrigði, sem samlíf okkar Árna var mér, og auðgaði líf mitt og starfsvið á svo margan hátt. Og þar lagði eg mig líka fram með lifandi áhuga. Við hvað sem maður beitir allri orku, verður einhver uppskera.

Eg hugsaði um það fram og aftur, með hvaða móti við gætum náð í frið og sómasamlegt heimilislíf. Þótt við gengjum sína götuna hvort, ættum við að geta látið hvort annað í friði. Eg var fyrir löngu búin að leggja árar í bát með að ímynda mér að Árni drykki ekki og draslaði hvar sem var og hvenær sem honum sýndist. Hann réði þar ekkert við sig. Það hafði komið aftur og aftur í huga mér að taka yngsta barn konunnar, sem dó, og ala það upp. Börnin voru mörg og fólkið allslaust. og eftir því sem eg braut meira heilann um þetta, fanst mér að öllum, er hlut áttu að máli, gæti orðið það til góðs. Árni var barngóður, og þetta gat orðið okkur sameiginlegt verkefni og ánægjuauki, að hafa barn á heimilinu. Það voru okkur vonbrigði fyrstu árin, að eignast ekki barn. Framvegis ætlaði eg mér að hafa vald á skapsmunum mínum, halda jafnvægi og hugarró, reyna mitt besta, þegar eg kæmi heim aftur. Eg ákvað að tala við Árna um að taka barnið, og eg var

sannfærð um, að hann yrði því hlyntur. Maður getur hæglega raðað hlutunum í huga sér og komið þægilegu skipulagi á alt, en framkvæmdirnar eru stundum snúnar úr höndum okkar.

Með alla þessa ráðagerð í huga lagði eg af stað aftur heimleiðis. Það var ekki eins góður vegur þá, eins og hann er orðinn nú, svo að þegar við komum heim að Brekku, var áliðið kvölds. Eg lét drenginn, sem keyrði mig, ekki fara alla leið heim, heldur gekk eg frá veginum, beygði fyrir skógarnefið, niður með lækuum og heim að bænum. Eg sá að gömlu hjónin, sem voru vinnuhjú hjá okkur, voru sofnuð. Þau bjuggu út af fyrir sig í gamla kofanum, sem við byrjuðum búskapinn í. Þar var ekkert ljós sýnilegt, en eg sá ljós heima á bænum. Svo að Árni var þá heima. Eg hálfkveið fyrir að koma heim, og gekk því hægt heim stíginn. Kvöldið var undur milt, og alt var gengið til hvíldar, nema svolítill laufþytur í skóginum og næturlífið í öllum þessum smádýrum, sem fara á fætur um sólarlagsbilið, en hafa hægt um sig að deginum til.

Um leið og eg gekk heim að húsinu, varð mér litið inn um stofugluggann. Þar voru þau, Árni og Guðlaug, og létu vel hvort að öðru. Bæði auðsjáanlega í ástum, eða hvað maður á að kalla það. Svo að þarna var hans úrlausn fengin.

Eg fór ekki lengra, fékk ólyst á að fara inn, ólyst á að reyna að halda áfram að búa með Árna og reyna að kippa í lag því, sem ómögulega var hægt að bjarga. Skapgerð Árna var sú, að þar var ekkert efni til að vinna úr, því að ábyrgðarleysinu fylgdi hroki. En það hafði eg misskilið fyrir hugrekki og kjark, þegar við

ung vorum að draga okkur saman, og mættumst andlega og líkamlega sparibúin.

Eg gekk niður að læknum og settist þar, drap höndunum ofan í rennandi vatnið og baðaði á mér andlitið. Það er stundum friðandi, að þvo sér úr köldu vatni, ekki síst ef maður hefir komið nálægt einhverjum óhreinindum. Eg sat svo þarna við lækinn grafkyr, víst nokkuð lengi, en smám saman fór svo hugsunin að skýrast og jafna sig. Heimili okkar Árna var gjaldþrota og sambúð okkar lokið. Okkur skorti skapfestu, einlægni, úthald, umburðarlyndi og þrótt til að standa saman, að eg ekki tali um andlega samúð og ást. Mér var ómögulegt að hugsa til að vera lengur húsfreyja á Brekku og kona Árna. Eg ákvað að fara alfarin strax með morgni. Hvað Guðlaugu snerti, var Árna guðvelkomið að flytja hana heim til sín og búa með henni. Eg ætlaði mér bara það eitt, að verða ekki á vegi þeirra, fara minna eigin ferða hér eftir.

Eg fann nú alt í einu til þess, að kroppurinn á mér var allur eins og lurkum laminn, enda engin furða, því að eg var þreytt af ferðinni. Það var ekkert spaug að klöngrast áfram eftir vegleysunum á hörðum trésætum, sem við urðum að sætta okkur við í þá daga. Og svo þessi heimkoma! Eg var að hugsa um, hvar eg gæti lagt mig útaf og hvílt mig, því að inn til vinnuhjúanna eða Árna gat eg ekki fengið mig til að fara. Þá mundi eg alt í einu eftir kornhlöðunni, og þar bjó eg um mig og lagði mig fyrir, lagði mig fyrir í stráinu, eins og hver annar ferðalúinn flækingur, sem hvergi á höfði sínu að að halla, en lætur þar nótt sem nemur, í hlöðum og heystálum, og sofnast vel að sögn. Eg

sofnaði nú samt ekki fyr en komið var undir morgun og allar raddir dagsins byrjaðar að láta til sín heyra.

Það var liðið langt fram á morgun, þegar eg vaknaði, fór á fætur og gægðist út, því að eg kærði mig ekki um að heimilisfólkið vissi hvar eg hafði gist um nóttina. Það voru engir á ferli, og morguninn var tárhreinn og yndislega fagur. Mér varð þungt um andardrátt og það kom kökkur í hálsinn á mér, og ómælanleg eftirsjá greip mig. Mér hafði aldrei fundist fegurra á Brekku en þarna um morguninn, þar sem eg stóð úti í ljómandi sólskininu og horfði yfir heimahagana og út yfir vatnið. Þetta var síðla sumars og alt vaxið og fullþroska; og það var eins og jörðin biði nú róleg, með fangið fult af gróðri eftir átökum haustins. Eg gekk hægt heim að bænum og staðnæmdist snöggvast í garðinum mínum. Blómin brostu til mín og kinkuðu kolli. Og í þetta skifti, eins og æfinlega þegar eg athuga þá margvíslegu formfegurð, litskrúð og ilm sem fylgir blómum, þessum börnum ljóssins og moldarinnar, — þá fylltist hugur minn aðdáun og lotning fyrir leyndardómi lífsins og gróandans. Manneskjurnar eru eins og blómin, háðar sömu skilyrðum. Við þurfum hentugan jarðveg, ljós og yl, til að ná formfegurð, litskrúði og ilmi í líf okkar og háttsemi ytra og innra.

Eg gekk svo inn í húsið og fram í eldhús til Bjargar gömlu, sem var þar að gjöra búverkin, kastaði á hana kveðju, bað um morgunkaffi og spurði eftir Árna. Hún sagði að hann hefði þá í bítið um morguninn farið út á engjar að slá, en kæmi heim um hádegisbilið til miðdegisverðar. Björg var æfinlega glöð og brosandi, þegar eg kom heim, og leitaðist við að sýna mér og

sanna, að allur búskapurinn væri í góðu lagi, sem hann líka var hjá henni. Hún var ein af þessum trúu manneskjum, sem vann alt fyrir aðra eins og það væri hennar eigið. Við Árni virtum það og reyndum að láta þeim gömlu hjónunum líða vel.

Í þetta sinn var Björg þegjandaleg eins og gjörði sér far um að eiga annríkt. Eg sá strax að það, sem gekk að henni, voru vandræðin yfir því, að vita af Guðlaugu inni í húsinu. Svo að eg sagði henni, að eg hefði skroppið heim til að sækja mér föt og ná í verkfærin mín og meðalaskrinuna, „apótekið“ kallaði eg það stundum í gamni, eg væri lofuð suður í bygð núna strax á morgun. Eg stóð svo á fætur og ætlaði inn í stofuna, en það kom fát á Björgu, og hún segir:

„Það er gestur þarna inni.“

„Já, Guðlaug,“ svaraði eg rólega. „Eg veit um hana.“ og eg horfði um leið beint framan í Björgu. En hún leit undan og varaðist að líta framan í mig. Var það í fyrsta skipti, sem eg mætti þess konar undanfærslu, óhreinindum eða tilhliðrunarsemi frá henni. Síðar varð eg útfarin í þeirri list, að taka eftir og lesa, þá um lengri tíma, augnaráð fólks og hugsanir gagnvart mér,— og ekki einungis mér, því að auðvitað var augnaráðið spegill af hugsanalífi og siðferðislegu ástandi fólksins sjálfs. Hver sá í sínum eigin hug, það sem reynsla hvers og eins, innræti og hvatir, sköpuðu sér. Eg mætti augum, sem voru hrein og hlýleg, vorkunnlát og vinsamleg, lögðu enga dóma á neitt. Svo voru enn fleiri augu, frek, hnýsin, miskunnarlaus, sem reyndu að gægjast inn í huga manns, ná þar í heitustu tilfinningar, sorgir og meiðsli, snúa þar öllu öfugu, rífa á hol og tæta sundur eins og gráðugir vargar. Fyrir slíkum

augum verður alt ljótt, — jafnvel sjálf guðshugmyndin verður útötuð. Ósiðsamleg augu, sem leita að bráð, og augu, sem reyna að sýnast mild og siðsöm, horfa beint niður fyrir sig og sjá þar með sterkum litum sínar ljótu hugsanir. Eg lærði að þekkja fólkið, innra hugarfar þess og siðferðisástand, eftir því mati, sem það lagði á hugarfar mitt og gjörðir. Það getur þú reitt þig á, Sólveig, að eftir eigin kendum og þroska dæmir fjöldinn aðra.

Fyrst í stað tók eg það dálítið nærri mér að mæta almenningsálitinu, en svo smálærðist mér að standa nokkurn veginn á sama. Tíminn máir alt. Eg man til dæmis, altaf eftir því, um haustið rétt um það bil að fólkið var búið að átta sig á, að eg var hlaupin frá manninum, eins og það komst að orði, að eg var sótt til sængurkonu. Aðkoman var þar ekki skemtileg. Þessi hjón bjuggu í kofaræfli, sem var eitt það allra lélegasta hreysi hér um slóðir þá, og er þá djúpt tekið í árinni. Svolítill bjálkakofi, lágreistur með moldargólfi og leir og mosa troðið í rifurnar til skjóls. Húsmunirnir lélegt, kolryðgað stóar-skrifli, rúmbálkur, borð úr óhefluðum viði neglt undir gluggann og tveir eða þrír kisturæflar heiman frá Íslandi, og svo lítið þrep fyrir geymslu í einu horninu, — fáein fátækleg og léleg búsáhöld. Og til frekari óþæginda flaut vatn yfir gólfið. Undanfarið höfðu gengið ofsarigningar og krapahríðar, svo að vatnið seytlaði inn í kofann, því að landið, þar sem hann stóð, lá lágt.

Ofan í þetta fæddist svo barnið, stór og hraustlegur drenghnokki. Konan var sterk og hraust og heilsaðist vel. Eg reyndi eftir megni að líta eftir þeim og láta þeim líða vel, þar á meðal að ausa vatnið af gólfinu og

bera út. En eg tók eftir því, að augun í konukindinni fylgdu mér eftir með forvitni og tortrygni, eins og eg væri eitthvert aðskotadýr ekki af betri tegundinni. Og húsbóndinn var þeim mun verri, að þegar hann var í kring, sá eg bregða fyrir í augunum og í kringum munnvikin ógeðslegu glotti. Það var alt ljósmóðurkaupið, sem eg tók frá þeim. Undir ýmislegum svona löguðum kringumstæðum byrjar fólk oft að drekka, sér til hressingar. Þegar við erum gleðivana og leiðindi, tómlæti og einstæðingsskapur sitja um sálu manns eins og stigamenn, verður mörgum það að fylgja eftir hljómfalli glaumsins, reyna að grípa gleðina báðum höndum, teyga bikarinn í botn, — og búa svo að dreggjunum. Eg drakk ekkert sterkara en kaffi, en oft flaug mér í hug, að hefði mér þótt vín gott, þá hefði eg tekið því fegins hendi, að skvetta í mig — eins og Árni — til að gleyma, til að kveða niður afturgöngurnar, sem sveimuðu umhverfis mig. Kuldi og tortryggni samferðafólksins voru byrjuð að hafa áhrif á sálu mína og hugsanalíf með sínu eitrandi og eyðileggjandi andrúmslofti. En hamingja mín bjargaði mér frá þeirri hrakæfi að verða úti á því hjarni, eiginlega óskiljanlega fljótt. Það, að vera iðulega staddur á landamærum lífs og dauða, bendir huganum inn á víðari svið en þau, að hugsa eingöngu um sjálfan sig. Að sjá og taka þátt í annarra gleði og annarra sorgum sýnir okkur greinilega þann raunhæfa sannleika, að enginn lifir sjálfum sér.

Og styrk og tiltrú gáfu mér líka í ríkum mæli þeir fáu einlægu vinir, sem eg átti, eins og til dæmis þið Ófeigur. Drenglyndi hans og mannlund hefir löngum verið á reiðum höndum, þegar einhverjum hérna í

sveitinni hefir verulega legið á hjálp. Þú manst að hann gekk í ábyrgð fyrir mig og sá að mestu leyti um að koma upp húskofanum mínum þá um haustið. Og eftir að eg var flutt þangað leið mér betur. Þar eignaðist eg aftur heimili til að eiga athvarf í. Ef við leggjum fram alla krafta, sálar og líkama, til að ná einhverju ákveðnu takmarki, þá tekst okkur það í einhverri mynd. Hvort sem það eru kröfur andans um að hugsjónir og draumar þróist og verði að virkileika, eða bara hugsunin um sinn eigin skrokk, — hungur og þorsta líkamans.

Eg lagði mig fram af öllu megni, til að ná jafnvægi, til að láta mér fara fram í starfi mínu, til að komast af og bjarga mér. Og mér lánaðist það, svona að mestu leyti. Eg reyndi að læra og lesa bækur um hjúkrun og lækningar. Og af þeim lærði eg að nota jurtir, búa til ýmsar grasablöndur og smyrsl, sem komu sér vel í meðala- og læknisleysinu. Mörgum varð gott af þessu grasaseyði, en mest þó fyrir trúna, er grunur minn —" sagði Steinunn, brosandi. „Svo voru aðrir, sem vildu fá eitthvað krassandi og bragðsterkt, til að læknast af, eins og til dæmis Torfi gamli fiskikarl. Þú hlýtur að muna eftir þeim Torfa og Önnu, kerlingunni hans."

„Já, já, eg man vel eftir þeim, þau lifðu heillengi eftir að eg kom hingað í bygðina," svaraði eg. „En eg kyntist þeim eiginlega aldrei neitt, Steinunn. Þau voru ekkert aðlaðandi manneskjur, að mér fanst. Kerlingin óskapa bulla og karlinn útdrabbað rekald."

„Já, lýsingin er nokkuð rétt," svaraði Steinunn hægt. „En Torfi var í eðli sínu stórmyndarlegur maður og kominn af góðu fólki heima á Íslandi. Þó að hann væri orðinn velktur, þá sáust þó altaf leifar af manni.

Hann var einn af þessum afdönkuðu skólamönnum, sem í stað þess að stunda námið lenti í alskonar óreglu. Hann flæktist um allar jarðir, þar til æfin endaði hér á ströndinni við vatnið í frumbyggjakofa og algerðu auðnuleysi. Mér þótti vænt um karlinn, því að innan um leirinn var þó mikið af skíru gulli. En til Önnu gömlu má eg helst aldrei hugsa. Hún var ein ógæfan hans, og alveg nægilegt syndastraff fyrir mislifaða æfi. Mér fanst æfinlega þegar eg athugaði Önnu, að Drottinn hefði mist hana hálfskapaða, út úr höndunum á sér, og að það hefði verið slysni, að hún varð að manneskju. Hún hefði sómt sér miklu betur einhvers staðar í dýraríkinu í annarri mynd. Oft þegar eg athugaði þau hjón, gat eg ekki varist þeirri hugsun, að presturinn, sem gaf þau saman og sagði þeim að þau væru eitt, hafi orðið að biðja afsökunar á rangherminu hinum megin, þegar farið var að gera upp reikningana. Torfi gamli var einn af þeim, sem á óskiljanlega margan hátt gat látið þá, sem honum var vel til og hann vildi sýna samúð, finna að hann tók þátt í kjörum þeirra. Þó að hann ætti ekkert nema gamla fiskibátinn og netin, sem hann reið sjálfur, og þreyttar og þrútnar vinnuhendur, bólgnar af árinni og bláar af vosbúð, átti hann þó hlýju í hjarta, sem smábörnin fundu, er hann strauk þeim um kollinn, og vinir hans í styrku handtakinu. Næst ykkur Ófeigi var það Torfi gamli, þótt undarlegt megi virðast, sem hjálpaði mér áleiðis, á meðan eg var að átta mig, og meðan þvaðrið og andúðin hérna í sveitinni voru að ganga sér til húðar.

Veturinn leið nú svo, að eg vissi ekkert um fólkið á Brekku. Nokkrum sinnum hafði eg séð Árna bregða fyrir, en enginn hafði minst á hann við mig, hvað þá

eg við aðra. Snemma morguns seint í Apríl vaknaði eg við það, að barið var hart að dyrum. Eg fleygði mér í föt og fór fram og opnaði hurðina. Þar úti fyrir stendur Árni. Snöggvast flaug mér í hug, að hann væri drukkinn, en svo sá eg þegar eg horfði framan í hann, að svo var ekki. Það var samt eins og honum vefðist tunga um tönn, svo að eg ávarpaði hann heldur þurlega:

„Hvert er erindi þitt hingað?“ Eg horfði beint í augun á honum um leið. Eg ætlaðist til, að honum skildist á svip mínum og fasi, að eg byði honum ekki inn. Þarna stóðum við og horfðumst í augu andartak eins og andstæð öfl. Svo sagði hann og bar ótt á“:

„Eg er kominn til að sækja þig til konu í barnsnauð, og þú verður að koma tafarlaust.“

„Eg var grandlaus og spurði: Hver er það?“

„Guðlaug“, svaraði hann snúðugt.

Eg stóð alveg orðlaus, og það greip mig svo snögg reiði, að eg gat hvorki talað né hreyft mig, heldur stóð eins og steini lostin og hélt mér í dyrastafinn. Svo að Árni var kominn til að sækja mig til Guðlaugar! Eg hálfhló við, og eiginlega var það þó ekki hlátur, og sagði:

„Einmitt! Svo að það er erindið hingað.“

Hann færði sig nær mér og sagði alvarlega:

„Já, Steinunn, það er erindið, og þú getur ekki neitað að koma með mér. Þú hefir löngum auglýst, að þú neitir aldrei um hjálp undir svona löguðum kringumstæðum.“

Eg áttaði mig óðara á því, að Árni hafði rétt fyrir sér. Undir engum kringumstæðum gat eg neitað að fara. Svo að eg sagði lágt og í sama rómi og maður talar við ókunnugt fólk:

„Já, auðvitað kem eg, hvað annað er hægt að gera?“

Á örstuttri stund var eg tilbúin, því að þótt hjartað í mér berðist upp í háls og hendurnar ætlu bágt með að hlýða huganum fyrir óstyrk, þá var eg fljót að tygja mig til. Og svo lögðum við af stað og sátum hlið við hlið á vagnsætinu, eins og við höfðum svo oft setið áður, þegar við ferðuðumst eitthvað. Eg veit ekki hvort eg á að reyna að lýsa þeirri ferð fyrir þér. Hvorugt okkar mælti orð alla leiðina, en þeim mun meira var þá líklega hugsað. Gremjufullar, ólgandi, sundurslitnar andúðarhugsanir fyltu fjarlægðar-þögnina og lágu eins og þykkur veggur á milli okkar. Hver segir, að þögn dylji hugsanir fólks? Mér hefir oft fundist þær æði áberandi — svo var þá að minsta kosti, að þögnin duldi ekkert.

Þegar við komum heim að Brekku, varð eg að láta hendur standa fram úr ermum. Björg gamla var skjálfandi af hræðslu og ekki mikil hjálp í henni. Guðlaug kom voðalega hart niður. En með hjálp guðs tókst mér að hjálpa henni. Og barnið fæddist lifandi og óskaddað. Eg hefi aldrei á æfi minni verið eins hrædd við að hjálpa konu og eg var í þetta sinn. Og þegar öllu var lokið og eg stóð þarna við gamla hjónarúmið mitt og sá, að þeim var báðum óhætt, þá varð eg svo innilega þakklát og fegin. Mér fanst eg vera mikil lánsmanneskja, að Guðlaug og barnið dóu ekki í höndunum á mér. Og það undarlegasta var, að þar sem eg stóð og athugaði barnið, sem var laglegur drengur, var ekki frítt við, að eg sem snöggvast öfundaði Guðlaugu af að eiga hann.

Eg var þar nokkra daga, umgekst og hjálpaði Guðlaugu eins og hverjum öðrum sjúklingi, og annaðist hana og barnið. En það get eg sagt þér, að þá kom mér

vel að hafa vanist ýmsu, sem kendi mér að láta ekki sjá á mér alt, sem eg hugsaði og fann til.

Daginn áður en eg ætlaði að fara var eg að skola þvott niðri við læk. Eg reyndi að hjálpa Björgu gömlu með heimilishaldið, því að hún var varla með sjálfri sér yfir þessu öllu, sem var að ske á heimilinu, og tók sárt til mín og Árna, eins og hún ætti okkur. Eg sá að Árni kom gangandi heiman að og stefndi í áttina til min niður að læknum. Eg hugsaði með mér, að þarna gæfist mér tækifæri að láta hann vita, að eg færi daginn eftir. Hann svaraði því engu, en sagði eftir andartak:

„Eg kom til að tala við þig, Steinunn, og biðja þig bónar.“

„Nú hvað er það?“ spurði eg og hélt áfram að þvo.

„Það er að halda áfram að vera hér heima, að fara ekki burtu aftur.“

Eg stóð mállaus af undrun og starði á hann. Það gaf honum ranga hugmynd, að eg held, því að hann hélt áfram, öruggur í rómnum.

„Við skulum taka barnið og ala það upp, og eg get komið Guðlaugu einhvers staðar fyrir og séð til með henni fyrst um sinn. Hún kærir sig ekkert um mig, fremur en eg mig um hana. Við erum bæði leið, og hér er ekkert heimili og hefir aldrei verið síðan þú fórst. Og eiginlega sé eg nú ekki því þú raukst burt í haust. En eg er viljugur að fyrirgefa þér það, ef þú ferð ekki burt aftur.

Síðan hefi eg skilið, að minsta kosti að einhverju leyti, hvers vegna fólk drepur stundum hvert annað í ofsareiði. Alt sem eg gerði nú samt, var að reka Árna utan undir af öllum kröftum. Hann hvítnaði af geðs-

hræringu, en stilti sig samt um að leggja hönd á mig, en kreisti fram á milli tannanna:

„Svo að þér er ekki alveg sama um mig ennþá!“

Eg svaraði því engu, en gekk rakleiðis heim að húsinu svo æst í skapi, að eg vissi tæplega mitt rjúkandi ráð. Svo að hann ætlaði að fyrirgefa mér og reka barnsmóður sína út, þetta stúlkugrey, sem hann flutti hingað heim. og sem hafði lagt lífið í hættu við að fæða son hans. Síðan ætlaði hann að sparka henni út og fyrirgefa mér. Eg brann af löngun til að sýna honum, hve skammarlegt mér fanst þetta tilboð hans. En hvað gat eg gert til að sýna honum fyrirlitningu mína? Ekkert, nema að taka töskuna mína og fara. Alt í einu varð mér litið á höndina á mér, á giftingarhringinn minn, sem eg bar enn þá á fingrinum. Eg hafði eiginlega aldrei tekið eftir því, eða athugað það, að hann var það eina, sem eg hafði í eigu minni frá Árna. Alt annað skildi eg eftir á Brekku. Þarna var svarið. Þegar eg var búin að jafna mig svo, að andlitið á mér bar þess ekki merki, í hvaða skapi eg var, þá fór eg inn til Guðlaugar og sagði henni vinsamlega, að nú yrði eg að fara. Hún og barnið kæmust vel af án mín eftir þetta. Svo dró eg hringinn af hendi mér og sagði henni, að hún ætti að bera hann, því að nú væri hún húsmóðir hér og kona Árna. Eg sagði henni, að eg bæri engan kala til hennar, heldur bæði henni allra heilla. Hún sagði ekkert, en lá þegjandi og tárin runnu úr galopnum augunum niður kinnarnar. Við að sjá hana svona meinlausa, kjarklausa og hjálparvana, hvarf mikið af því ógeði, sem eg hafði haft á henni, úr huga mér. Hún varð í augum mínum eitt af þessum stráum, sem fjúka fyrir vindi, hvert sem hann blæs.

Og þarna skildu leiðir okkar Árna í raun og veru fyrir fult og alt. Eg hélt heimleiðis, fegin því, að hafa brent allar brýr að baki mér, en þó einmanaleg og óglöð, með eftirsjá yfir því, að hafa ekki borið gæfu til að láta heimilislíf okkar og hjónaband verða sómasamlegt og friðsamt, heldur stjórnast af ofstopaskap, einfeldni og ótrúmensku, hvort upp á sinn hátt. Vafalaust gerir svona reynsla mann vitran á ýmsan hátt. en hún er of dýrkeypt, þegar goldið hefir verið fyrir hana með skerðing á fegurð og samræmi á löngum kafla í lífi manns.

Síðan hafa árin liðið og lífið oftast verið gott. Eg eignaðist aftur heimili, fallegan blómagarð og marga góða vini, sem alt til samans gaf mér sjálfstæði og andlegt frelsi, svona innbyrðis. Og hér hefi eg dvalið og lifað í sorg og gleði síðan fyrstu kofarnir voru reistir, hefi séð bygðina vaxa og þroskast, landið rutt og ræktað með atorku og dugnaði. Eg hefi séð menn berjast við alt, sem reynir mannlega krafta og sálarþrek — einmanaskap, veikindi, vonleysi og alskonar skort — séð þá glíma við drottin, ekki í draumi, eins og Jakob forðum, heldur í veruleikanum.

Og það er skrítið sambland af þakklæti, fögnuði og stolti, sem eg finn oft í huga mér, þegar eg lít yfir og hugsa um þessa bygð. Núna, þegar eg sit hér hátt uppi á höfðanum og horfi út yfir landið, sem liggur fyrir augum, blikandi í sólskininu af litskrúði og fegurð, þar sem skiptast á skógarblettir, akrar og engi, vel hýstir bæir og býli, smáþorp hér og þar og brautir, sem greiða fyrir samgöngunum — í rauninni margra alda menningarstarf unnið á örstuttum tíma — þá finn eg best hvað eg elska þessa bygð. Landnemarnir, sem

gengu hér um sárfættir og gáfu þessu vilta landi alla krafta sína, eiga það hjá kynslóðinni, sem nú tekur við plógnum, að hún láti ekki illgresið spretta þar sem svitadropar og tár þeirra hafa vökvað jörðina."

Steinunn sat þegjandi um stund og horfði út yfir vatnið. Svo sagði hún hægt og án þess að líta upp:

„Eg er orðin óskaplega langorð, en nú er eg komin að síðasta kaflanum í lífi okkar Árna. Seint í apríl í vor var eg eitthvað að dunda við inniverk heima hjá mér. Það var dimt í lofti og leiðinda kuldahryssingur úti, en þeim mun notalegra inni. Eldurinn logaði glatt í stónni og eg var rétt í þann veginn að búa mér til kaffisopa. Þá var barið að dyrum. Eg fór fram og lauk upp hurðinni, og þar stendur þá Guðlaug úti fyrir, mæðuleg, tötraleg til fara og auðsjáanlega gegnblásin af kulda. Mér varð snöggvast orðfall, svo forviða varð eg að sjá hana. Líklega meira af vana en af nokkru öðru, sagði eg:

„Gerðu svo vel og komdu inn."

Hún horfði vandræðalega á mig og fylgdi mér þegjandi inn í stofuna. Eg dró fram stól, bauð henni sæti við eldinn og gaf henni nánar gætur um leið. Hún var mögur, slitleg og afskaplega þvæld í útliti. Það var tæplega hægt að sjá þess merki nú, að hún hafði verið lagleg á yngri árum. Andlega var aldrei neitt í hana spunnið, svo að þegar æskublóminn var horfinn og strit og stríð höfðu sett sitt mark á hana, var af litlu að má, því að þroska sýndist hún ekki hafa bætt við sig með aldrinum. Hún sat í hnipri og ornaði sér og starði framundan sér með vandræðasvip.

„Er nokkur veikur heima hjá þér?" spurði eg til að rjúfa þögnina.

„Já, Árni,“ svaraði hún lágt.

Ég var að leggja kaffiáhöldin á borðið — það hjálpaði mér að hreyfa mig. Eg spurði rólega:

„Er hann þungt haldinn?“

Hún leit upp og tárin runnu niður kinnarnar, hrukkóttar og hálfskorpnar.

„Já, eg kom —“ lengra komst hún ekki. En eftir stundarkorn hélt hún áfram — „eg kom til að vita um hvort þú gætir ekki ráðlagt eitthvað eða hjálpað. Hann hefir óskapleg kvalaköst. Hún tók höndunum fyrir andlitið og tárin hrundu ótt og títt.

Mér hefir ávalt fallið þungt að sjá vini og þá, sem mér hefir verið vel til, vera sorgbitna og geta ekkert að gert. En þá hefi eg æfinlega getað gefið samúð mína af heilum hug. Í þetta sinn gat eg það ekki. Guðlaug var mér leið og eg vildi ekkert með hana hafa. Og þó var einhver taug í mér, sem vorkendi henni. Hún leit upp grátbólgin og rauðeygð og sagði:

„Hann sendi mig eftir þér.“

Eg hefi þá trú, að manns eigið framferði, hugsanir og gerðir, mæti manni einhvers staðar á gatnamótum, fyr eða síðar, hérna megin landamæranna. Og ef eg hefði verið í sporum Guðlaugar, þá hefði mér fundist, að nú væri komið að skuldadögunum. Eg starði á hana, satt að segja steinhissa. Orðin duttu út úr henni máttlaus, litlaus, áherslulaus. Hafði hún enga hugmynd um, að hún væri að biðja mig óþægilegrar bónar? Undarlegt, hvað lítið maður er í rauninni kunnur sínu eigin hugarástandi og sálarlífi! Eg hafði haldið, að öll þau gömlu meiðsli væru fyrir löngu gróin, bara brígslin eftir. Nú fann eg, að svo var ekki. Mér svall aftur reiði og sársauki í huga. Guðlaug sýndist ekki hafa neina-

hugmynd um þann storm, sem æddi í huga mér, því að hún hélt áfram í sama rómi:

„Í nótt sem leið tók hann mikið út, og þegar sló út í fyrir honum, kallaði hann á þig. Heldur þú ekki að þú getir komið með mér?“ — bætti hún við í biðjandi rómi.

Þá alt í einu opnuðust á mér augun. Eg fann, að þótt hún væri rola, þá mundi það kosta hana nokkuð, að biðja mig þessarar bónar. Og eiginlega áður en eg áttaði mig á hvað eg var að gera, var eg byrjuð að raða í töskuna mína hreinum rúmfötum, þurkum, sóttvarnarmeðulum og svolitlu af öðrum lyfjum, sem eg mátti höndla, styrkjandi víni og fuglasoði, sem eins og þú veist, eg hefi vanalega við höndina og tek með mér þangað, sem eg veit að lítið er til. Ef dæma mátti eftir útlitinu á Guðlaugu, þá gat maður ímyndað sér, að þetta kæmi sér alt vel. Vinnan hefir æfinlega fært mér frið og hjálpað mér til að geta yfirvegað hlutina frá ýmsum hliðum. Svo var í þetta sinn. Meðan eg var að búa mig út, náði eg aftur valdi yfir sjálfri mér að mestu leyti. Eg varð að hjúkra veikri manneskju, sem þurfti hjálpar við — annað kom ekki til greina. En eg kveið fyrir þessari ferð. Mér fanst eg vera huglaus og veikburða. En það hafði eg enga löngun til að láta Guðlaugu sjá eða fá hugmynd um.

Innan skams var eg ferðbúinn. Við lögðum svo af stað í gömlum kerruræfli, sem Guðlaug kom í, og hesturinn, er gekk fyrir, var samsvarandi að útliti og aldri — skáldaður, horaður, gamall og beinaber — svipur og augnaráð dapurt og úttaugað. Mér fanst, að beinin mundu hrynja saman innan í húðinni þá og þegar, þar sem hann pjakkaði áfram eftir veginum. Það hrikti í

öllum liðamótum á skepnunni, alveg eins og kerrunni. Hestar sýna æfinlega hvaða æfi þeir eiga og hafa átt. Alveg eins er með manneskjurnar. Guðlaug hafði sama útlit og svip, var bara vonlaus, útþvæld og slitin skepna. Þér þykir það kannske ótrúlegt, en við að athuga hana og hestinn, var eins og þurkaðist út úr huga mínum mikið af ógeðinu, sem eg hafði haft á henni. Eg vorkendi henni á sama hátt og húðarjálknum.

Við keyrðum svona áfram þegjandi, og þótt við sætum hlið við hlið, var sjálfsagt langt á milli okkar. Veðrið var að hlýna og það var komið logn og hætt að rigna, en þó var enn þá drungaloft, og skýin, góðveðursleg, dökk og þrungin af vatni, grúfðu yfir sléttunni. Vorið var að byrja að sýna sig í loftinu og alt í kring, hvert sem litið var. Það var farið að grænka í rót, greinarnar á trjánum og víðirunnunum voru orðnar bústnar og gljáandi. Humlarnir höfðu þegar vogað út litlum, silfurhærðum kollunum. Þrestir, rauðbrystingar og allskonar farfuglar fyltu loftið með kvaki og söng. Mér fanst það einhvern veginn lífsnauðsyn að veita öllu nákvæma eftirtekt, sem fyrir augu bar, reyna að festa myndirnar í minni, greypa þær í hugann. Eg reyndi að verjast þeim hugsunum, sem ásóttu mig, með því að sökkva mér niður í að taka eftir ytra umhverfinu, en það dugði ekki til. Myndirnar, sem geymdar voru í huganum frá fyrri árum, urðu æ skýrari. Eg hafði ekki komið að Brekku síðan fyrir löngu, að eg sat yfir Guðlaugu, og gangan þangað heim var erfið í dag.

Við vorum komnar þangað, sem gatan heim að Brekku beygði frá aðalveginum, og þegar við komum fyrir skógarnefið blasti húsið við. Framundan því lá brekkan niður að læknum, blessuðum læknum, sem

streymdi framhjá eins og lífið sjálft. Hér höfðum við numið land og valið okkur bæjarstæði með fangið fult af framtíðarvonum. Og nú blasti aftur við mér gamla heimilið mitt, heimilið, sem eg hafði verið svo glöð yfir að eiga og stolt af að búa sem best út, þegar eg var ung kona og nýbyrjuð á búskapnum. Nú sá eg að húsið var af sér gengið og hrörlegt — ekkert verið gjört við það, auðsjáanlega, í langa tíð. Umgengnin umhverfis var öll eftir því. Garðurinn minn, sem eg hafði grætt með blómum og jurtum framundan húsinu, var með öllu horfinn. Þar var nú hnökrótt flag — runnarnir brotnir og flestir dauðir. Eitthvað af trjánum var ennþá lifandi. Það hafði bjargað þeim, að þau voru vaxin upp fyrir höfuðin á þeim, sem gengu þarna um.

Guðlaug sagði mér að ganga inn, hún þyrfti að ganga frá hestinum — og hélt af stað með hann í áttina til hesthússins. Var það einhver eðlisávísun, sem lét hana skirrast við, að fylgja mér inn í húsið til Árna?

Svo gekk eg ein heim að húsinu og opnaði hurðina, sem enn sýndi, að hún hafði verið smíðuð af hagleik, þótt hún héngi nú skökk á hjörunum og félli ekki alveg að stöfunum. Eg fór beina leið aftur í eldhús. Þar var unglingsstúlka, sem Guðlaug hafði sér til hjálpar. Eg spurði hana um líðan Árna. En rétt í þeirri svipan heyrði eg stunur innan úr svefnherberginu, svo að eg flýtti mér inn þangað. Hér mættumst við þá aftur eftir öll þessi ár.

Þarna lá hann nú, þreyttur og úttærður, með lokuð augu og kvaladrætti í andlitinu. Án þess að opna augun bað hann um vatn, og um leið og eg dreypti á hann vatninu, strauk eg hendinni mjúklega yfir ennið á honum, eins og maður gjörir við börn, eða þá sem þurfa

hjálp og samúð. Hann opnaði augun, og það brá feginssvip yfir andlitið, og þá sá eg strax, að hann var með öllu ráði. Í augun var kominn þessi undarlegi ljómi, er þeir fá, sem ekki eiga langt eftir. Það er eins og allir kraftar, vit og tilfinning hafi safnast þar saman; og auk þess er eins og deyjandi augu sjái lengra, fleira og meira en við, sem frísk erum, höfum hugmynd um. Eg sá strax, að skynjun hans var afskaplega næm og fljót, og að hann vissi sjálfur, að nú var hann kominn að síðasta áfanganum.

Eg hefi oft hugsað um fyrirgefning — hvað menn meina með því, þegar talað er um að þessi eða hinn fyrirgefi þetta eða hitt. Í rauninni er aldrei neitt fyrirgefið, sem hefir verulega sært. Það er hægt að leggja það á hilluna. En á meðan að það er ógleymt, er það heldur ekki fyrirgefið. Kuldahugurinn, sem eg bar til Árna, og sú vanvirða, sem mér fanst hjónaband okkar hafa orðið, lá eins og klakaband um sál mína, sem mér hafði aldrei ímyndast, að eg losnaði við.

Við að horfa á Árna þarna í rúminu, þjáðan og aðfram kominn, hvarf alt úr huga mér, án allrar yfirvegunar eða hugsunar, nema löngunin til þess að hjúkra þjáðri manneskju og létta síðustu sporin. Mig langaði að leggja fram alla krafta. Mér fanst þá, eins og svo oft, að eg eiga næstum í handalögmáli við þau öfl, sem eg gat þó ekki lagt hendur á, veikindin og dauðann.

Þarna inni var nóg, sem þurfti verulega að taka höndunum til. Herbergið var óþrifalegt, rúmfötin í meira lagi kvoluð og loftið slæmt. Þegar eg var búin að þvo honum, skipta í rúminu, þrífa til í herberginu og gefa honum svolítinn skamt af hressandi víni, sýndist honum líða betur. Hann mókti svo og lá í hálfgjörðu

dái fram eftir nóttinni, talaði ekki nema orð og orð á stangli, svo að ef hann hefir langað til að tala eitthvað við mig, var það orðið of seint, kraftarnir þrotnir.

Eg vakti svo ein yfir honum. Guðlaug var úrvinda af þreytu, og þurfti svefns og hvíldar með. Og nú var engin andúð lengur, heldur lá friður í andrúmsloftinu þar inni í herberginu. Mér hefir víst liðið í brjóst, þar sem eg sat í gamla ruggustólnum mínum undir glugganum. Alt í einu hrökk eg saman og vaknaði af þessum hálfgjörða svefndvala, við að mér fanst kaldur andvari líða yfir andlitið á mér. Inn um gluggann blés svöl morgungolan. Það var rétt undir aftureldinguna, og í herberginu var undarleg kyrð og þögn. Eg leit yfir að rúminu, og þar sýndist mér alt með sömu ummerkjum. En um leið og eg stóð á fætur til að líta eftir Árna, vissi eg, að hann var dáinn.

Dauðinn hafði aldrei fyr komið svona nálægt mér, og eg skildi betur en nokkru sinni, að öll sund voru nú lokuð. Þannig endar lífið altaf. Enginn kveður vin sinn eins hlýtt og hann feginn vildi. Enginn tjáir hug sinn allan og ást. Enginn lýkur því starfi öllu, er hann ætlaði sér. Enginn fær sína fegurstu drauma rætta.

Eg hagræddi Árna og veitti honum nábjargirnar, gjörði bæn mína, strauk þreyttu vinnuhendina og kvaddi hann. Gekk svo inn til Guðlaugar til að láta hana vita, að hún væri orðin ekkja.

Svo fór eg út til að vera ein, og gekk niður að læknum í skjól við húsið. Nóttin og myrkrið fylla sálir þeirra, sem vaka einir, með eirðarleysi og ótta, en þó finst mér maður aldrei eins óumræðilega einmana og tilfinninganæmur og í dagrenningu, þegar nótt og dagur mætast, myrkrið og ljósið, svefninn og vakan

— dauðinn og lífið. Mér fanst þarna um morguninn — þegar eg horfði á gullroðinn himininn um sólaruppkomuna, fann morgunblæinn líða í loftinu og hlustaði á fuglakvakið, að á hverjum morgni um afturelding mundi andi drottins reika um jörðina — andi ljóssins og lífsins vekja alt líf jarðar af nætursvefninum, en gefa því lífi hvíld, sem er of þreytt og þjáð til að mæta nýjum degi."

Steinunn starði um stund þegjandi út yfir vatnið, svo sneri hún sér til mín og sagði brosandi, en með tárin í augunum:

„Sólveig mín, maður veit aldrei hvar skip manns ber að landi. Eg hefi aftur fundið frið við sjálfa mig og traust á manneskjunum."

— — — — — —

Sólveig stóð upp og hristi grasið af fötunum sínum, um leið og hún sagði: „Dagurinn endaði þannig, að Steinunn keyrði mig heim og var hjá mér um nóttina. — Nú höfum við ekki þann brúna við hendina, svo að okkur er betra að fara að hraða okkur heimleiðis."

Á leiðinni heim var eg að hugsa um, hversu djúp spor sumir skilja eftir í sandinum, og hvort það er ekki eina fólkið, sem í raun og veru hefir lifað.

Einhvern tíma, fyr eða síðar, kemur að því fyrir öllum, að þurfa að gera reikningsskap við lífið, við sjálfan sig, við alt æfistarfið. — Og í kvöld var Ófeigur í Lundi að reikna saman útgjöld og inntektir rúmlega fimtugrar æfi. Hann lét hestinn lötra í hægðum sínum eftir sléttum veginum. Það fór vel um hann í mjúku sætinu. Veðrið var milt og frostlítið, stafalogn og hvíta tunglsljós. Alt var hulið hreinum, nýföllnum snjó, eins langt og augað eygði, nema þar sem skógar-runnarnir stóðu, myrkir og þögulir, á verði, eins og hersveitir af dökkálfum.

Hár og herðabreiður og myndarlegur maður var hann Ófeigur, — dökkhærður, snareygður og skarpleitur. Gleðimaður hafði hann verið á yngri árum, fríður og karlmannlegur, og hafði margri stúlkunni þar í sveit hlýnað um hjartaræturnar í návist hans. Og svo var með alt fyrir Ófeigi, — það var eins og lánið elti hann, sagði fólkið. Honum græddist fé og álit með ári hverju. En ríkidæmi Ófeigs var ekki alt hepni. Hann hafði unnið eins og víkingur, og aldrei unnað sér hvíldar, fyr en nú upp á síðkastið, að hann hafði orðið að neyðast til þess sökum heilsubilunar. Hann var á heimleið frá lækninum þetta kvöld. Þeir

voru gamlir vinir, og hafði hann sagt Ófeigi sannleikann, að æfinni væri bráðum lokið. Og Ófeigur fáraðist ekkert um það, því að slíkt var ekki eftir skapferli hans, en hugur hans átti óvenjulega annríkt í kvöld. Nú, þegar tíminn var orðinn svona naumur, fann hann fyrst, hvað litlu hann hafði afkastað, hve snautt lífið hafði verið af öllu, nema striti og búsáhyggjum. Ekki vantaði það, að honum hafði græðst fé, völd og virðingar í sinni sveit, en um leið og hans ytri maður hafði stækkað og vaxið um sig, hafði hans innri og betri maður — tilfinningar og sálarlífið — rýrnað og skroppið saman. Já, hann þurfti að gera skil hér og þar. En þó var það nú eiginlega Sólveig, konan hans, sem hann hafði verið að vanskipta í allri reikningsfærslunni, konan hans, sem hafði unnað honum, annast hann, alið honum falleg og efnileg börn, strítt og starfað með honum öll þessi ár. Hann gat ekki gert sér grein fyrir því, hvenær það hafði byrjað né ástæðuna fyrir því, að þau höfðu verið að smáfjarlægjast hvort annað hægt og hægt. Báðum var þeim jafnant um búskapinn — í því var þeim samhent, — en samúðin og gleðin í sálum þeirra og sambúð smáþvarr og varð að fálæti og afskiptaleysi, og að síðustu reis eins og veggur á milli þeirra, sem hvorugt reyndi að rjúfa. Hann hafði til þessa kent um skapgerð þeirra — hann ráðríkur, skapstór og vinnuharður, en hún stríðlynd, þybbin og fámál —, en var ekki undirrótin hin sama — of mikið strit, þreyta og tilbreytingarleysi, er smálamaði alla lífsgleði og samúð? Og glaðlynd hafði þó Sólveig verið, — glaðleg, blíð og falleg — og falleg var hún enn, en glaðlyndið var horfið. Og átti

hann ekki sök á því? Fáorð, alvarleg og stjórnsöm og sívinnandi var hún, svo að jafnvel móður hans mundi hafa þótt nóg, ef hún hefði verið á lífi, — hún, sem var þó svo hrædd um, að Sólveig væri léttúðugur ónytjungur, þegar hann trúlofaðist henni. Já, þegar hann trúlofaðist Sólveigu í trássi við alt og alla, hve hann elskaði hana þá heitt og ásetti sér að bera hana á höndunum til daganna enda. — En hafði hann æfinlega gert það?

Og nú, þegar hann keyrði heimleiðis í hægðum sínum, stóð alt í einu ljóslifandi fyrir hugskotssjónum hans kvöldið, sem þau trúlofuðust. Hvert einasta smáatvik á þeirri ökuferð rifjaðist nú upp fyrir honum. Ærið ólík ferð þessari, að undanteknu því, að það var á aðfangadag jóla, eins og nú. Þá hafði hann í för með sér æsku, ást og framtíðarvonir — Sólveigu, en nú var dauðinn föruneytið.

— — — — — —

Það hafði verið efnt til jólatréssamkomu í litla skólahúsinu þar í sveitinni, — og það var nú engin smáræðishátíð í þá daga. Yngri systkini hans réðu sér ekki fyrir tilhlökkun að komast þangað, og hann hlakkaði engu minna til ferðarinnar, en mestmegnis vegna þess, að Sólveig ætlaði að verða með í förinni. Hún var vinnukona hjá móður hans, og hafði komið heiman af Íslandi vorinu áður. Hún var ekki búin að vera þar lengi, þegar honum varð það ljóst, að hann var ástfanginn — og það svo alvarlega, að hann sá konuefnið sitt í þessari fátæku, umkomulausu stúlku — ef hún þá vildi hann — því að hún hafði þá strax það við sig, að halda fólki í fjarlægð, þegar henni sýndist svo.

Alt var á ferð og flugi að búa sig af stað. Hann hafði hagað því svo til, að systkini hans fóru öll í stóra sleðanum, en fyrir litla sleðann, er aðeins tók tvo, spenti hann uppáhaldshestinn sinn, og í honum fóru þau Sólveig og hann.

Það var reglulegt Manitoba-jólaveður, heiður, alstirndur himinn, glaða tunglskin og hvítalogn. Kvöldið var svo kyrt og hljótt, að það var eins og nóttin héldi niðri í sér andanum. Það var grimdarfrost og silfurhvítt hjarnið huldi alt, og lá í öldum og kömbum eins og stirðnað úthaf. Sléttan á að ýmsu leyti sammerkt við hafið — hún, eins og það, fyllir sálu manns seiðandi löngun, að leggja af stað og kanna ómælisvíddina. Á sumrum fylgir henni þunglyndisþrá, en á vetrum geigur og ótti; því að sléttan, undir vetrarsnjó, er enn ægilegri en hafið, af því að hún er kyrlátari og eyðilegri. Manni finst, að dauðinn standi á gægjum við hverja fannbungu. En í þetta skipti var fannbreiðan aðeins töfraland, er þau flugu yfir. Mjúkur snjórinn þyrlaðist undan hesthófunum og marraði undir sleðameiðunum. Loftið, þunt og kalt, brendi og sveið andlit þeirra, og við hvern andardrátt greip frostið loðnum loppunum fyrir vitin á þeim. Og þarna úti í hreinni, heiðri og stjörnubjartri jólanóttinni tjáði hann henni ást sína og hug allan, og fékk þau svör, er hjarta hans þráði. Og áfram flugu þau yfir mjúka fönnina — áfram, eins og í draumi, ein, alein í dýrðarheimi jólagleði og æskuástar, með söng og gleði í sál sinni. Og hjarnið framundan þeim var ekki lengur hjarn, heldur töfraland, er ljósálfar höfðu stráð miljónum demanta, er sindruðu og glóðu undir næturhimninum.

Skólahúsið var litið og lágt undir loft, en tréð var stórt og fallegt, og lagði af því ilm og angan um alt húsið. Litið var um jólaskrautið á því, nema dálítið af kertum og heimatilbúnum körfum og pokum úr ýmislega litum pappír, er héngu á greinum þess, fullir af sætindum. Börnin sungu, spilúðu og lásu upp, og að því loknu voru jólagjafirnar afhentar. Og enn mundi hann eftir undrunar- og gleðisvipnum á Sólveigu, er henni var færður böggull, sem hann hafði laumað á jólatréð, þegar hann kom — og hvað hún roðnaði, þegar hún opnaði böggulinn og fann þar silki í kjól og dálitla brjóstnál úr gulli — frá honum.

Og andlit allra ljómaði af gleði og góðvild, þegar að lokum fólkið fór að tygja sig til heimferðar. — Góða nótt, og gleðileg jól! — Gleðileg jól! kallaðaðist fólkið á, þegar út var komið og sleðarnir voru að renna af stað. Gleðileg jól! Gleðileg jól! kvað við í sleðabjöllunum, uns ómur þeirra dó út í fjarska.

— — — — — —

Hann var nú kominn heim. Bærinn var allur uppljómaður af ljósum. Þegar hann opnaði dyrnar og gekk inn, lagði á móti honum ilm af jólaréttunum, er blandaðist saman við angan af stóru grenitré, er dóttir hans var að ljúka við að skreyta inni í setustofunni. Jólatréð brosti þarna við honum, glæst og glitrandi af ljósum og jólaskrauti, og hlaðið jólagjöfum. Dóttir hans, falleg, glaðleg og prúðbúin, kom á móti honum, er hún varð hans vör, og hjálpaði honum úr loðfeldinum. Hann sá Sólveigu bregða fyrir frammi í eldhúsinu, þar sem hún var að undirbúa jólamatinn. Alt húsið var fágað og skreytt — engu

var gleymt. Hátíðablær hvíldi yfir öllu. Jólin voru gengin í garð.

Jólagesti — vini og skyldfólk úr nágrenninu — dreif nú að. Með gleði og gestrisni var tekið á móti þeim, og með rausn og myndarskap gengið um beina. Þó var enginn eins glaður og reifur og húsbóndinn. Hann var hrókur als fagnaðar undir borðum, sá um að allir skemtu sér og enginn yrði út undan. Og svo leið kvöldið við alsnægtir, gleði og söng, þar til síðustu gestirnir kvöddu og heimilisfólkið tók á sig náðir.

Þau hjónin voru nú orðin ein eftir niðri. Sólveig var á stjái fram og aftur um húsið — tók til og færði í lag hér og þar. En Ófeigi varð reikað inn í stofuna, þar sem eldur brann ennþá á arni. Hann settist í hægindastól hjá arninum, rétti fram fæturna og lét ylinn streyma um sig. Hann var dauðþreyttur og eftir sig, eftir glaðværð kvöldsins og þunga dagsins. Hann starði í eldinn og sá stóra trébúta verða að glóandi eldi og síðast kulnaðri öskuhrúgu. Og honum flaug í hug, að þarna væru trén að skila aftur sólskini heillar æfi, er þau hefðu fengið að láni sér til lífsuppeldis. — Mundi honum endast aldur til að gera hið sama? — — —

Ef enginn ræður sínum næturstað, þá er naumast hægt að búast við, að alt, sem fyrir kann að koma að deginum til, sé manni sjálfrátt. Stundum vill það og til, að mann hendir eitthvað það, sem maður hefði svarið fyrir, að gæti átt sér stað. Eg hefði til dæmis ekki trúað því á sjálfa mig, að eg mundi nokkurn tíma standa á hleri, og meira að segja hafa enga samvisku af, en þetta varð mér nú samt á.

Hérna á dögunum var eg stödd niðri á Portage Ave., og var að bíða eftir sporvagni. Eins og vant er þegar maður er að hraða sér, þá runnu allir vagnar í aðrar áttir en þá, sem eg var að fara í. Þeir runnu suður og austur, norður og niður, en enginn vestur í bæ. Það var voðaleg hitasvækja — rétt um 100 gráður í skugganum — umferðin mikil, hávaði og skrölt í sporvögnunum og urg og hornahljóð í bifreiðunum. Gasolíusvæla og bikfýla blönduðust í loftinu eins og ólyfjan og gerðu erfitt um andardrátt. Fyrir hornin á byggingunum sló brennandi heitum vindgusum. Það var eins og hitinn og óloftið mintu á æfintýrasögurnar um skrímslin, er hvæstu brennandi eiturstrokum fram úr nösunum, og skrældu og

drápu alt á vegi sínum. Mér fanst snöggvast að strætið og steinhallirnar væru morandi af þess konar óvættum.

Mér var að verða óglatt af að standa þarna í hitanum, hávaðanum og óloftinu, svo að eg tók það ráð, að flýja inn í kaffisöluhús, er stóð þar rétt hjá og bauð þreyttum og heitum vegfarendum hvíld, svaladrykki og hreint andrúmsloft. Eg settist þar inn í hliðarstúku, og fékk innan stundar ískaldan drykk, sem eg sötraði hægt. Svalandi gola frá nálægum rafþyrli lék um mig, og eg varð hvíldinni fegin.

Það voru fleiri en eg, sem voru heitir og þreyttir, því að fólk streymdi þarna út og inn. Auðvitað gaf eg því engan sérstakan gaum, því að manni lærist fljótt í fjölmenni, að hætta að veita einstaklingum eftirtekt. En alt í einu heyri eg, að verið er að tala á íslensku þarna fast hjá mér. Tveir menn voru að tala saman, og eg heyrði greinilega hvert orð, sem þeim fór á milli. Þeir sátu í stúku, sem var skáhalt við mig. Með því að halla mér lítið eitt til í sætinu, gat eg séð þá í speglinum, sem hékk á veggnum uppi yfir borðinu mínu. Þar sá eg þá eins greinilega og eg hefði setið fast hjá þeim. Eg þekti hvorugan. Báðir voru fullorðnir, svona á að giska um miðjan aldur. Annar þeirra, sá eldri, að eg hygg, var dökkur á brún og brá, fremur feitlaginn, hygnislegur á svip og bar það með sér, að vera veraldarvanur, og það var auðsæ kímni í augnaráðinu. Hinn varð mér meira starsýnt á. Hann var hávaxinn, grannleitur og ljóshærður, með einkennilega bjart og drengilegt yfirbragð. Það var eins og gáfurnar og skapið leiftraði úr augunum og svipnum, þegar hann var að tala.

Sá dökkhærði hallaði sér fram á borðið og hristi öskuna gætilega úr vindlingnum sínum, um leið og hann horfði brosandi framan í hinn manninn. Það var auðséð, að þeir voru vinir. Eg hafði ekkert tekið eftir því, sem þeir sögðu, fyr en nú, að eg heyrði þann dökkhærða spyrja:

„Hvenær leggur þú af stað suður aftur?“

„Annað kvöld, — svo að tíminn er farinn að styttast, — en það hefir verið mér mikil ánægja, að koma hingað aftur og hitta gamla kunningja og æskuvini, og ekki síst þig.“

Hinn leit upp og hló við, um leið og hann sagði: „Ekki kom okkur nú æfinlega sem best saman um hlutina.“

Sá ljóshærði brosti glaðlega og greip fram í:

„Já, manstu, hvað vondur eg varð, þegar þú varst að reyna að koma fyrir mig því, sem þú kallaðir vit og heilbrigða skynsemi, þegar eg var fullur vandlætingar yfir öllu röngu á þessari jörð.“

„Og þegar þú ætlaðir í einum rykk að endurbæta alt mannfélagsfyrirkomulagið, rífa alt hið gamla til grunna og byggja upp nýjar borgir, þar sem frelsi, jöfnuður, mannréttindi og almenn vellíðan sæti að völdum. Þá langaði mig stundum til að svífa á þig og hrista úr þér órana.“

„Og mig langaði til að hleypa lofti inn í afturhaldsheilann á þér,“ svaraði hinn og hló. „Margan drauminn dreymdi mig fyrst í stað, þegar eg tók við ritstjórn „Kolumbusar“. Þú manst eftir litla sveitablaðinu, sem eg vann við í nokkur ár, áður en eg flutti suður í Bandaríki. Og aðeins einu sinni varð mér ofurlítið ágengt með að róta til þar úti í sveitarónni.

Og það var bara fyrir slys. Greinin, sem eg skrifaði og varð orsök að því öllu, var bölvuð vitleysa og rugl frá mínu sjónarmiði, og hróflað saman af gapaskap."

„Ha, ha! þarna kemur það, — kannske það hafi verið af viti, frá annarra sjónarmiði."

„Vertu nú rólegur, — eg skal nú segja þér frá því, eins og það gekk til, — eg held að eg hafi aldrei gert það, því að við sáumst þá orðið svo sjaldan. Eg var önnum kafinn við blaðið og ýmislegt fleira, sem fylgir þeirri ábyrgðarfullu stöðu, að vera ritstjóri í smábæ. Satt að segja tók eg mig sjálfan töluvert hátíðlega þá. Einn dag sem oftar sat eg á skrifstofunni og var að brjóta heilann um efni í grein, sem einhver mergur væri í, en eins og oftar var andlega hart í búi, og eg kom engu saman af því, sem mig langaði til að segja. Svo að eg lagði það til hliðar og fór að hugsa um, hverjum skollanum eg gæti ruglað saman í dálkinn, sem vantaði. Með þeirri hugsun fór eg að fletta nýkomnum blöðum, og þar rak eg mig á greinarkorn, sem mér fanst alveg einstætt að smásálarskap, smekkleysi og krabbahætti í hugsun. Greinin var skrifuð í hátíðlegum anda og sjáanlega af töluverðri áreynslu. Það var alvarleg viðvörun til allra ungra manna, að gá að sér, að giftast ekki fallegum stúlkum. Einu konurnar, sem eigandi væru, væru ófríðar konur. Með þeim einum gætu menn orðið hamingjusamir og húsbændur á sínu heimili, — og engin meðmæli væru það heldur, að þær væru gáfaðar. Og eins og vant er, þegar svona þvaður er skrifað, voru læknar og vísindamenn bornir fyrir þessu. Fyrst sat eg alveg forviða á kotungs-hugsunarhættinum, sem skein út úr hverri setningu, — svo fór

eg að hugsa um framför mannkynsins, ef mest stund væri lögð á, að rækta alt það ljótasta og ófríðasta innan þess. Guð minn góður, ekki veitti okkur þó af með útlitið, svona mörgum hverjum! Eg fyltist réttlátri reiði fyrir hönd allra fallegra stúlkna, og nú fann eg, að andinn var kominn yfir mig.

Eg tók svo blaðið aftur, og leit yfir greinina enn á ný, áður en eg tæki til óspiltra málanna, að rífa hana sundur lið fyrir lið. En þá fór fjandinn alt í einu í mig. Mér fanst þetta svo mikil fjarstæða, að eina ráðið væri að skopast að því. Svo greip eg pennann, og lagði út af greininni, en í alt öðrum tón, en eg ætlaði mér í fyrstu. Eg helti dynjandi skömmum yfir frítt kvenfólk, benti á hvílíkir hættugripir það væri í mannfélaginu, og þó sérstaklega í hjónabandinu, — það kveldist af hégómaskap, eyðslusemi, valdafíkn, ástleitni og iðjuleysi. Eg nefndi ýmis dæmi úr mannkynssögunni, til að sýna lærdóm minn. Svo útmálaði eg með fjálgleik og fögrum orðum alla þá kosti, sem ófrítt kvenfólk ætti yfir að ráða. Í stuttu máli, þær væru þær einu, sem okkur karlmönnunum væri óhætt að taka saman við, til að halda virðingu okkar og húsbóndarétti.

Eg bjóst við öllum skollanum fyrir þessa grein, bjóst við hellirigningu af hnífilyrðum og háðvísum, og undir niðri hlakkaði eg til að fá nóg efni í „Kolumbus“ fyrir næstu tvær—þrjár vikur. En mér brást þetta alt. Enginn sagði orð, enginn skrifaði eða sendi mér línu í blaðið. Svo að eg komst að þeirri niðurstöðu, að einu mætti gilda, hvort reynt væri að skrifa af viti, eða bara hreina og beina vitleysu eins og þessa grein, — það félli alt á dauf eyru.

Nokkrum dögum síðar var fundur í íþróttafélaginu, sem við ungu mennirnir höfðum stofnað þar í bænum og grendinni. Þar komst eg að því, að greinin hafði verið lesin, því að óspart var dregið dár að mér fyrir hana þar á fundinum. Sumir af drengjunum höfðu við orð, að stofna félag ógiftra manna, er berðist fyrir þessu göfuga málefni, og bentu á, að ekki mætti ætla mér minni heiður en forsetasætið í þessu þarfa félagi. Eg kvaðst með ánægju skyldi taka embættið, ef þeir uppfyltu skilyrðin, en eg væri hræddur um, að þeim gengi illa að finna konur, sem væru ófríðari og einfaldari en þeir sjálfir. Við vorum fullir af gáska og gamni yfir þessu, og varð því lítið úr tímanum, enda fá fundarstörf fyrir hendi. Á hverju sumri höfðum við dálítið skemtimót úti í guðs grænni náttúrunni, þar sem best hagaði til og fegurst var um að litast. Þar var etið og drukkið, og algengar skemtanir um hönd hafðar, svo sem glímur og aðrar íþróttir, söngur og dans. Auðvitað bauð hver piltur sinni uppáhaldsstúlku, því að annars hefði minna orðið um gleðina. Á þessum fundi ráðstöfuðum við öllu í sambandi við þetta sumarmót. Næsta sunnudag átti hófið að standa, og hugðum við allir gott til glóðarinnar.

Svo leið fram eftir vikunni. Eg átti annríkt við blaðið og ýmislegt fleira, sem safnaðist að, þar á meðal að undirbúa þessa samkomu. Eg ætlaði hvað eftir annað að ná í Völu og bjóða henni, jafnvel þótt eg teldi mér hana vísa. Þótt við værum ekki beinlínis trúlofuð, þá skoðaði eg hana í huga mér sem stúlkuna mína. Hún var þá yfirkennari þar í skólanum, og ein langfallegasta og best mentaða stúlkan í bygð-

arlaginu. Þegar eg enn á ný reyndi að ná í hana síðar í vikunni, var mér sagt, að hún mundi vera inni á bæjum, hjá Sólveigu í Lundi. Á laugardagskvöld rakst eg loks á hana af hendingu og bað hana að koma með mér á þessa samkomu okkar drengjanna. Hún þakkaði boðið og sagði, að sér þætti mjög mikið fyrir því, að geta ekki farið með mér, því að það ætti að verða fyrsti fundur og líkamsæfingar í fegurðarfélaginu þennan sama dag.

„Fegurðarfélaginu!" át eg eftir henni, — „nafnið lætur ákaflega hátíðlega í eyrum. Eg man ekki eftir að hafa heyrt getið um þetta félag fyr. Segðu mér frá því."

Hún brosti gletnislega og svaraði:

„Það er ekkert hægt að segja frá því ennþá, — það er rétt að byrja. Nokkuð lengi, núna undanfarið, hefi eg verið að reyna að koma á fót líkamsæfingum meðal ungu stúlknanna hérna, en mér hefir ekki tekist að koma því í framkvæmd, fyr en núna rétt nýskeð, að eitthvað hefir orðið til að breyta hugarfari þeirra. Þær eru nú allar viljugar að ganga í fegurðarfélagið og hafa mikinn áhuga á því," sagði hún sakleysislega. „Og nú langar mig að biðja þig bónar. Það er að geta um þetta í blaðinu, og mæla með því um leið."

Eg játti því, og efndi loforðið. Í næsta blaði mintist eg á þetta lofsverða fyrirtæki. Eg gat um það, hvernig Grikkir hefðu þjálfað líkama sinn með alskonar æfingum, og öðlast með því fegurð og hreysti. Eg hugsaði mér að láta Völu sjá, að eg tók á sparihöndunum, og endaði með heillaóskum til félagsins og þessarar starfsemi í þarfir fegurðar og heilbrigði.

Eg náði aftur í Völu og reyndi að fá hana með mér á samkomuna, — því að það náði engri átt, að hún þyrfti að vera við þessar æfingar allan daginn. En aftur gaf hún mér afsvar, og bætti við í þetta skipti, að nóg væri til af ungum stúlkum, ef eg vildi bjóða einhverri annarri.

„Það er þá því aðeins, að þú hafir ekki náð þeim öllum í þetta félag þitt — fegurðarfélagið,“ sagði eg í stríðni.

„Til þess að fá inngöngu í það, þarf viss skilyrði“, svaraði hún brosandi í sama tón.

„Svo — og hver eru þau?“ spurði eg.

„Auðvitað fegurð!“

„Þá verður það ekki mjög fjölment, ef skilyrðunum verður stranglega fylgt.“

Hún hló við um leið og hún sagði:

„Hver veit hvað kann að koma í leitirnar?“

Með það skildum við.

Sunnudagurinn rann upp, bjartur og fagur, — veðrið eins ákjósanlegt og hægt var að óska sér. Við félagar höfðum mælt okkur mót á samkomustaðnum um nónbilið. En úr því að Vala gat ekki komið með mér, flýtti eg mér ekkert. Svo nokkru síðar tók eg reiðhjólið mitt og lagði af stað. Þegar eg var kominn æðispöl út fyrir þorpið, sá eg þústu á veginum framundan, og við nánari aðgæslu sá eg, að þetta var hópur af fólki. Og hverjum heldur þú að eg hafi svo mætt þarna nema fegurðarfélaginu með Völu í broddi fylkingar. Og eg segi þér satt, að þarna var fögur fylking á ferðinni. Það var ekki til sú herfa í bænum, sem ekki var með í hópnum, og svo vitaskuld allar laglegu stúlkurnar líka. Eg heilsaði öll-

um skaranum með mestu virktum, og þær voru hinar glaðlegustu og vinsamlegustu í bragði. Þó það væri nú líka, — hafði eg ekki skrifað nógu fallega um þær? Vala var sú eina, sem hafði grímu á andlitinu. Hún var alvarleg eins og hershöfðingi, sem er að æfa undirmenn sína.

Eg stóð um stund og horfði á eftir þeim, og þegar allur hópurinn var kominn framhjá, setti að mér óstjórnlegan hlátur. Ef einhver taugaveiklunar-sérfræðingur hefði séð mig þarna, er ekki ólíklegt, að hann hefði ráðlagt mér að hvíla mig um tíma á heilsuhæli. Eg flýtti mér nú alt hvað af tók á samkomuna, og hugsaði mér að spauga við drengina um konuefnin þeirra. En þegar þangað kom, fór af mér hláturinn. Þeir voru allir úfnir eins og fjandinn sjálfur. Engin stúlka hafði þegið boð frá nokkrum þeirra. Allar áttu þær annríkt þennan dag. Og nú losnaði um málbeinið á þeim. Allir kendu mér um, og greininni í „Kolumbusi“.

Eg sagði þeim, að greinin í blaðinu hefði engin áhrif haft, en það væri grunur minn, að einhver hefði sagt frá gasprinu í okkur á síðasta fundi um félagsstofnunina. Og nú loksins fór mig að gruna margt. Því að þegar eg leit yfir hópinn í huga mér, sem mætti mér á veginum, sá eg, að þar mundu hafa verið saman komnar allar ógiftar konur úr bænum og grendinni. Eg sá strax, að fegurðarfélagið var stofnað eins og mótmæli gegn félaginu, sem við í spaugi þóttumst ætla að stofna.

Okkur kom saman um, að bera okkur karlmannlega, og láta ekki á því bera, að við hefðum allir verið hryggbrotnir. Við vorum líka sannfærðir um,

að kvenþjóðin mundi ekki lengi sýna þá sjálfsafneitun, að afþakka boð okkar og skáganga jafn myndarlega menn og við vorum. Þegar við höfðum talað kjark hver í annan, var að því gerður góður rómur, og skemtum við okkur eftir föngum, og söknuðum stúlknanna engin ósköp.

En undir niðri var eg sár við Völu, að hún skyldi hlaupa svona á sig, að trúa þessu og biðja mig svo að mæla með þessu félagsfargani sínu og láta mig lofa því, mér alveg að óvörum. Hún hafði notað gömlu aðferðina okkar í félagsmálum. Ef einhver þykist verða hart úti í einhverjum félagsskap, þá er óðara farið af stað og stofnað nýtt félag, sem á einhvern hátt hefir það markmið, að vinna á móti og helst eyðileggja hitt félagið. Þessu veldur okkar sterka einstaklingseðli og víkingslund. Eg þurfti að tala við Völu.

Einn morgun skömmu síðar kom hún inn á skrifstofuna til mín í þeim erindagerðum, að biðja mig að lofa blaðinu að ljá fylgi sitt dálítlu málefni, sem fegurðarfélagið hefði með höndum og ætlaði sér að koma í framkvæmd.

Eg tók því þurlega, og sagði henni, að áður en eg skrifaði lofgreinar um tilvonandi störf þessa félags, yrði eg að vita hvað það væri, sem eg ætti að mæla með.

Hún kvað það sanngjarnt, og skýrði mér svo frá því, að þær hefðu hugsað sér, að koma upp svolitlum sundskála, stífla kílinn vestan við þorpið og búa til úr honum dálitla tjörn, hreinsa og slétta þar umhverfis, og ef fé ynnist til, gróðursetja tré, rækta

blóm og grænar grundir, sem börnin gætu leikið sér um.

Eg gleymdi öllum áminningarræðunum, sem eg hafði ætlað mér að lesa yfir Völu, því að satt að segja varð eg svo hrifinn af hugmyndinni, að mig langaði óðara að koma henni í framkvæmd. Eg sá hvaða framför þetta gat orðið fyrir þorpið, að taka þessa óræktarspildu og forarkeldu og gjöra hvora tveggja að bæjarprýði.

„En hvernig í ósköpunum hugkvæmdist þér þetta?“ spurði eg, — því að mig grunaði, að hún ætti hugmyndina. Hún var sífelt að veita þarna inn nýjum straumum. —

„Það var enginn innblástur,“ svaraði Vala. „Eg hefi séð þetta gjört annars staðar, þar sem eg hefi ferðast. Fyrir nokkru síðan var kerlingin hans Jóns gamla blinda við rúmið og í því, svo að eg fór nokkrum sinnum yfir í kofann til að vitja um þau. Einn morgun, þegar eg var á leiðinni þangað gekk eg meðfram kílnum. Þá sá ég dálítinn gæsahóp, sem var að dýfa sér og vappa þar um. Skamt frá voru nokkrir smádrengir öslandi í grænni, slímkendri vatnsleðjunni. Eg sá þá alt í einu þarna, í anda, dálítið stöðuvatn, gosbrunn og svani, — og í kring grænar grundir og hvítklædd börn að leika sér.

Eg sá, að henni var þetta brennandi áhugamál. Hún leiftraði öll og ljómaði, þegar hún var að segja mér frá því. Svo hélt hún áfram.

„Eiginlega ætti eg nú að þakka þér sérstaklega vel fyrir, hvað þú flýttir fyrir þessu öllu með greininni, sem þú skrifaðir í „Kolumbus“ um konuvalið, og þá

ekki síður fyrir félagið, sem sagt er að þið hafið stofnað. Það varð til þess að koma stúlkunum hérna á skottleggina. Við erum bara að byrja, og þetta á að verða fyrsta verkið.

„Heyrðu, Vala, þú trúir þó ekki þessu skrattans þvaðri, sem gengur hér út af þessari grein, né skopinu, sem út úr henni spanst?"

„Nei, nei," svaraði hún fljótlega. „Eg varð hálfhissa á greininni fyrst í stað, en svo sá eg strax, að þú hafðir skrifað hana í glensi. En margir aðrir tóku hana bókstaflega, — og sjáðu áranguriun. Jæja, ætlar blaðið að ljá þessu málefni fylgi sitt?"

„Eg ætla að minsta kosti að ljá fylgi mitt. En hvernig ætlið þið að haga þessu? Því fylgir afarkostnaður."

Hún skýrði mér frá því í stuttu máli. Þær ætluðu að leita frjálsra samskota, og einkum þó fá menn til að gefa vinnu sína. Nefnd hafði þegar verið kosin, og eg sá í anda framan í suma karlana, þegar dætur þeirra færu að bera upp erindið. Á meðan að kostnaðurinn var ekkert meira en ræðuhöld og fundarsamþyktir, stóð sjaldnast á stóryrðunum, en ef leggja átti fram glerharða peninga, kom annað hljóð í strokkinn.

„Hvað á nú „Kolumbus" að gera? spurði eg brosandi, — „flytja myndir af fegurðarfélaginu og lofræður um ykkur allar? En það þarf meira ímyndunarafl og andagift en eg á yfir að ráða, er eg hræddur um."

„Þú verður að skrifa það, sem andinn innblæs þér," sagði Vala. Um leið og hún fór og kvaddi, fékk hún mér skrá yfir nöfn þeirra, er skipuðu nefndina.

Eg stóð og horfði á eftir henni, þar sem hún gekk

rösklega upp götuna, og varð ákaflega hlýtt um hjartaræturnar. Eg ætti að geta orðið innblásinn og skrifað um fegurð, eftir að hafa horft á Völu stundarkorn, hugsaði eg.

Eg skrifaði svo töluvert langa grein og mælti fastlega með, að konunum yrði gert mögulegt að koma þessari lofsamlegu hugmynd í framkvæmd. Eg sýndi fram á, að hér væri um verulegar umbætur í bænum að ræða, og nauðsynjaverk, en ef allir legðu eitthvað af mörkum, þá yrði kostnaðurinn kleifur.

Um það bil og áður en blaðið, með þessari grein, kom út, var fólkið komið á öndverðan meið í þessu máli. Karlarnir stóðu í hópum og skeggræddu og ráðguðust um þessa andskotans uppáfyndingu, spýttu mórauðum tóbaksleginum langar leiðir, snýttu sér og tóku í nefið, — og drógu dár að öllu saman. Konurnar heimsóttu hver aðra, og það er grunur minn, að þær hafi ekki þagað yfir kaffibollunum.

Nú var enginn hörgull á efni í „Kolumbus". Ritgerðum og kvæðum rigndi bókstaflega yfir mig. Eg var í standandi vandræðum, að vinsa úr öllum þessum austri, því að mér var vel kunnugt, að þeir, sem ekki komust að í blaðið, yrðu öskuvondir og segðu því upp. Og þá hafði eg útgefendur blaðsins, hluthafana, í hælunum á mér. Og í dauðans ofboði auglýsti eg, að svo mikið væri fyrirliggjandi af skrifum í sambandi við þetta mál, að það yrði birt í röð, eftir því sem efnið hefði borist blaðinu. Og til að sýna hlutleysi blaðsins, birti eg jafnt frá báðum hliðum, það sem mér fanst helst púður í. Blaðið var málgagn sveitarinnar, og auðvitað áttu allir rétt á málfrelsi.

Það var að horfa til vandræða, hversu margir fundu

köllun hjá sér til að leggja orð í belg. Eg sat einn inni á skrifstofu minni og nagaði á mér neglurnar yfir öllu þessu uppþoti og rifrildi, sem æfinlega er hægra að koma af stað, en stöðva aftur. Eg var í alvarlegum þönkum yfir þessu ástandi, þegar Ófeigur í Lundi opnar hurðina og gengur inn. Eg sá strax, að nú mundi eg eiga von á einhverju, því að Ófeigur var andskoti þurlegur. Hann byrjaði á því að spyrja mig, hvort eg ætti mjög annríkt, því að hann væri kominn til að spjalla við mig um blaðið og segja mér frá fundi, sem nýlega hefði verið haldinn í útgáfufélagi „Kolumbusar". Ófeigur var formaður félagsins, stærsti hluthafinn, og hafði verið öflugasti hvatamaður að stofnun blaðsins. Eg athugaði Ófeig þar sem hann sat, — aldraður, virðulegur maður, sem bar með sér, að vera fastur í lund, hygginn og drenglyndur. Eg virti hann allra manna mest — en þoldi honum samt illa, að láta hann knésetja mig, eins og honum hætti til við karlana í kringum sig.

Ófeigur sat þegjandi um stund og horfði á mig, og eg hafði það á meðvitundinni, að hann væri ekki eiginlega að horfa á mig, heldur í gegnum mig. Eg efast um, að eg hafi skilið til fulls fyr en þá þjóðsöguna um Kölska í mjólkurskáninni, á altarishorninu, undir messu hjá Sæmundi fróða.

Ekki óvinsamlega, en fremur dræmt, byrjaði svo Ófeigur að segja mér frá fundinum og óánægjunni í hluthöfunum yfir ritstjórninni hjá mér. Þeir álitu, að í stað þess að fá andlega þroskaðan mann, hefðu þeir ráðið alvörulausan ungling, sem hefði það fyrir gamanleik, að etja þeim saman, sem væru skömmóttir og framhleypnir, þangað til öll sveitin væri kom-

in í bál og brand. Gamlar skærur og löngu gleymd deilumál væru vakin upp aftur til að skerpa pennana og ala á úlfúðinni. Tilgangur blaðsins væri sá, að styðja að andlegu lífi, samúð og samvinnu innan sveitarinnar. En síðan í sumar, að unga fólkið hefði tekið upp á því, að láta eins og það væri milli vita, sýndist eingöngu fjandskapur og sundrung hafa áunnist í félagslífinu. Það væri sagt, að kirkjan stæði tóm, lyfjabúðin væri að fara á höfuðið og læknirinn hefði lítið að gera. Kvenfólkið hugsaði ekkert um skylduverk sín, heldur væri það steðjandi út um allar grundir í leit eftir grískri fegurð. Og síðasta uppátækið væri þessar svokölluðu framfarir og umbætur hér í bænum, sem allir heilvita menn gætu séð, að í of mikið væri ráðist, fyrir ekki stærra þorp.

Ófeigur lauk máli sínu með því að segja mér, að hér eftir yrði blaðið að kveða við annan tón, og hætta að birta þetta skammarugl og þvaður, ef eg ætlaði mér að halda áfram að vera ritstjóri þess.

Að svo mæltu kvaddi hann og fór, — og eg kom engu orði að, engri vörn fyrir mig. En í næsta blaði „Kolumbusar" sendi eg útgáfufélaginu kveðju guðs og mína. — „Fullir og fjúkandi reiðir" fáum við landarnir, eins og þú veist, kjark og hreinskilni í ræðu og riti. Eg skrifaði grein, sem eg kallaði „Bæjarprýðin". Eg sagði þar meðal annars, að það væri grátleg sjón, að sjá heimskuna, afturhaldið og meðalmenskuna, þessa hvimleiðu þrenningu, æða í faðmlögum fram og aftur um bygðina, blása eldi og eimyrju og hrópa hástöfum að öllu, sem að framförum mætti verða — bæði andlegum og verklegum. Eg sagði, að slíkir ættlerar væru Íslendingar að verða, að í

stað þess að vera vakandi og starfandi menn, væru þeir steinrunnin nátttröll í mannfélaginu. Svo lýsti eg keldunni og umgengninni meðfram henni eins svívirðilega og eg átti orð yfir. Þarna væri prýðin í hjarta bæjarins. Frá hagfræðilegu, fagurfræðilegu og heilbrigðilegu sjónarmiði blöskraði mér til þess að vita, að bæjarstjórinn, presturinn og læknirinn — önnur eins framúrskarandi valmenni og þeir væru allir — skyldu ekki fyrir löngu hafa séð svo sóma bæjarins, að gangast fyrir því, að eitthvað væri gert í þá áttina, að kippa þessu í lag og hreinsa til. Og áður en eg skildi við greinina, var eg búinn að koma öllum hluthöfunum, beinlínis eða óbeinlínis, inn í hana. Eg benti á það sorglega ástand og hugsunarhátt sumra manna, sem áliti það guði þóknanlegra, að hengslast áfram í átján hlykkjum, liggja heima í ímyndunarveiki og eta skottumeðul, í stað þess að hreyfa sig úti í sólskininu, eins og hraustu og heilbrigðu fólki sæmdi. Svo endaði eg mál mitt með því að tilkynna, að ekki yrði framar tekið orð í blaðið um þetta keldumál, og að þetta yrði að öllum líkindum síðasta greinin, sem eg legði á mig að skrifa í „Kolumbus“, því að í rauninni væri langbest fyrir útgefendurna að senda blaðið kaupendunum, án þess að hafa fyrir því, að útata það með prentsvertu, — það væri fult svo gott, að það væri hreint og hvítt til þess, sem það væri auðsjáanlega ætlað til.“

Hann hló lágt, og hélt síðan áfram:

„Reyndar blöskrar mér nú æfinlega, þegar eg hugsa um þessa ritsmíð mína, unggæðishátturinn og ófyrirleitnin, sem stjórnaði fyrir mér pennanum.

Daginn, sem blaðið kom úr pressunni, og við vor-

um að búa um það, hljóp eg út um hádegisbilið til að fá mér matarbita. Undir niðri var eg dálítið órólegur, því að eg bjóst við, að dagar mínir væru taldir við ritstjórnina. Á leiðinni til baka yfir á skrifstofuna, mætti eg Völu og heilsaði henni glaðlega. Hún tók kveðju minni fálega og stansaði ekki. Eg varð hálfhissa og spurði: Ætlar þú ekki að tala við mig, Vala? — Hvað er nú á seyði? — Hún horfði á mig með kuldalegu augnaráði, — og nú fékk eg hugmynd um, hvernig á því stóð, að sagt var, að hún hefði góða stjórn í skólanum.

„Þú spyrð að því! Eftir að eg fer í liðsbón til þín og þú lofar öllu fögru, þá snýst þér hugur, — þú hleypir öllu þessu rifrildi frá báðum hliðum í blaðið, öllum til athlægis, og endar svo með því drengskaparbragði, að snúa alveg við blaðinu og skrifa á móti okkur, eftir því sem eg hefi heyrt.“ Svo bætti hún við með fyrirlitningarsvip: „Auðvitað veit eg, að allir þurfa að hugsa um atvinnu sína — hugsa um að lifa, — en svona vindhanar eru ekki þess virði, að eyða orðum við.“

Eg horfði brosandi á eftir henni, og þótti vænt um að þurfa ekki að afsaka neitt við Völu. Svar mitt var í blaðinu, og eg vissi, að hún mundi lesa það, þegar hún kæmi heim til sín að stundarkorni liðnu. Þar gat hún séð, hve mikið eg hugsaði um atvinnuna. Eg sá nú, að Vala vissi um heimsókn Ófeigs og ætlaðist samt til, að eg héldi hennar hlið til streitu, þótt eg yrði að hætta við blaðið fyrir bragðið.

Það varð víst töluverður hvellur út af greininni, og annar fundur haldinn í útgáfufélaginu. Eg frétti, að Ófeigur og læknirinn hefðu haldið því fram, að í

flestu, sem þar stæði, væri fólginn sannleikur, og að sjálfsagt væri að fá mig til að halda áfram við blaðið, því að í mér væri efni í góðan blaðamann. Presturinn reyndi að miðla málum, og fundurinn endaði með því, að öllum kom þeim saman um, að fara meðalhófið í keldumálinu, en hjálpa því þó áleiðis.

Um haustið var byrjað að þrífa til meðfram kílnum. Bakkarnir voru plægðir og sléttaðir, kíllinn hreinsaður og ræstur fram og lagleg bjálkabrú bygð yfir hann. Vorið eftir gróðursettu stúlkurnar tré og runna umhverfis grasbalana, og var öll þessi vinna gefin og vanst mjög fljótlega og ánægjulega. Svo að „eftir jóðl og japl og fuður, Jón var grafinn út og suður“. Það skrítnasta var, að þetta varð áhugamál allra á endanum. Og eg held, að það hafi hrest karlana upp, að rífast og skrifa um þetta — það hafi rótað til í mollunni.

Eg hélt áfram við blaðið nokkuð lengi eftir þetta, — en sú löngun hafði ásótt mig um lengri tíma, að komast að einhverju stórblaði, þar sem eg gæti lært blaðamensku og æft mig í því að verða reglulegur skriffinnur. Og það var Ófeigur, sem hvatti mig mest og hjálpaði áleiðis.

Hann þagnaði og leit á úrið sitt, spratt á fætur og sagði:

„Það er komið fram yfir þann tíma, sem við lofuðum konunum okkar að mæta þeim, og Vala hefir ennþá það vald yfir mér, að eg vil ekki bregðast henni,“ bætti hann við brosandi.

Sá dökkhærði stóð líka upp, og um leið og þeir gengu fram gólfið, heyrði eg hann segja:

„Ætli það verði ekki meðalhófið og það, að fara sér hægt, sem sigrar á endanum.“

Hinn greip fram í og sagði:

„Skelfing er það samt kæfandi, — að eg ekki tali um vængstýfðar hugsjónir ........“

Það voru síðustu orðin, sem eg heyrði. Þeir voru horfnir út.

Eg rankaði við mér, og vissi, að eg mundi hafa setið þarna inni full-lengi, — en kannske leið sporvagnanna lægi nú vestur í bæ.

ur hennar úr klóm Ortrudar og Telramunds, fær að launum tortrygni og vanþakklæti. Og jafnvel Elsa treystir honum ekki til fulls. — En þurfti hún að lá Elsu svo mjög? —

Og nú sá Bergljót ekki lengur fram undan sér skrautbúna söngsveit, því að hugur hennar hvarflaði til baka yfir liðin ár, hvarf til baka til kvöldsins, sem hún fyrir tilviljun hafði séð Elvar fyrsta sinni. Það hafði staðið líkt á þá og nú, því að á sama leikhúsinu hafði verið söngleikur, er hana langaði til að sjá og heyra. Ætlaði hún sér að kaupa ódýrt sæti að vanda, en er til kom, voru þau öll seld; aðeins örfá dýr sæti á neðsta gólfi voru þar á boðstólum, og keypti hún eitt, heldur en að fara heim við svo búið.

„Gaman að vera rík og fín eitt kvöld á æfinni,“ hugsaði hún og brosti um leið og hún settist niður. Í sömu andránni bar þar að aldraða konu, vel búna, og ungan mann, sem auðsjáanlega var sonur hennar, og var þeim vísað til sætis hvoru sínu megin við hana. Þau spurðu um, hvort sætisnúmerin væru rétt, og sannfærðust um, að svo var. Bergljót sá, að þeim líkaði miður að vera aðskilin, svo að hún bauð að skipta um sæti og stóð upp um leið, og færði sig. Gamla konan var sest og brosti til hennar góðlátlega í þakklætisskyni. En maðurinn sneri sér að henni og sagði í kurteisum róm: „Eg þakka yður kærlega fyrir.“ Það var blærinn í röddinni, hljómmikill og hlýr, sem kom henni til að líta upp, og hún gat aldrei gert sér grein fyrir því, hvort það byrjaði þá eða síðar, er þau kyntust meir, að þessi rödd og augu festust í huga hennar og fylgdu henni æ síðan. Bergljótu til mikillar undrunar, fóru þau að tala saman á íslensku.

Konan talaði góða íslensku, en sonur hennar stirt mál með útlendum hreim. Þau sýndust hafa það að gamni sín á milli. —

Svo leið fram á sumarið. Hún hugsaði stundum um, hvaða Íslendingar þetta væru. Hún var sannfærð um, að hún hafði aldrei séð þau á íslenskum mannamótum, og því urðu þau að hálfgerðu æfintýrafólki í huga hennar.

Síðdegis á laugardegi í júlímánuði, í brennandi hita, flúði fólkið borgina í þúsundatali. Alla þyrsti í að komast norður að svölu Winnipegvatninu úr hitamollunni, rykinu og borgarskröltinu. Þrengslin í lestinni voru svo óskapleg, að ekki varð þverfótað, og stóð hver og sat, þar sem hann var kominn. Bergljót var ein af þeim, sem varð of sein að ná í sæti og stóð í ganginum og við hlið hennar í þrönginni staðnæmdist Elvar. Þeim varð báðum litið upp og augu þeirra mættust. Þau þektust strax og hvorugt reyndi að dylja það.

Sumir halda því fram, að það sé ókurteisi, að ókunnugt fólk talist við — það geri ekki aðrir en ruslaralýður af lægra tæinu, en svo er ekki ávalt — þar ráða kringumstæðurnar algerlega. Á ferðalögum, einkum skemtiferðum, er fólk örara í lund og kynnist fljótar en endrarnær. —

Upp frá þeim degi hittust þau og kyntust smátt og smátt, eins og ungu fólki er títt, sem er hrifið hvort af öðru og fellir hugi saman. Og fyrir þeim opnaðist nýr himinn og ný jörð — undra- og æfintýralönd ástarinnar — heimur út af fyrir sig, bjartur og fagur, sem þeir einir byggja, er unnast.

Elvar var aðlaðandi og skemtilegur maður, — und-

arlegt sambland af þjóðareinkennum foreldra sinna. Faðir hans var úr Suðurríkjum Bandaríkjanna; frá honum erfði hann örlyndi, riddaraskap og prúðmensku. En frá móður sinni, Íslendingnum, hafði hann náð festu og drenglyndi, björtum yfirlit og bláum augum. Hann var aðaleigandi í stórri verksmiðju, er hann stjórnaði mestmegnis, síðan faðir hans féll frá.

Þannig leið sumarið og næsti vetur, og vorið eftir ætluðu þau að giftast. Tíminn leið á vængjum hamingjunnar, og þá fyrst fékk Bergljót ljósa hugmynd um, hve lítils hún hafði notið af þessa heims gæðum. En þeim mun meiri fögnuði fylti það sálu hennar. Nú sat hún ekki lengur á hörðu bekkjunum uppi undir rjáfri leikhússins, heldur í dýrustu sætunum niðri í húsinu og þangað komu þau oft.

Um vorið, nokkru áður en brúðkaup þeirra átti að standa, símaði hann henni og bað hana að koma með sér um kvöldið á leikhúsið til að sjá Cinderellu, nýjasta leik Barrie's. Kvað hann sér mundi létta í skapi í félagsskap með henni og Barrie. Hann hafði átt andstætt undanfarið, því að öllu hafði slegið í bál og brand á milli vinnuveitenda og verkalýðsins. Fleiri og fleiri verkamannasambönd lögðu niður vinnu, uns alment verkfall hafði verið fyrirskipað af leiðtogum verkamanna. Allar samningstilraunir höfðu að engu orðið, og var eigi um annað að ræða, en bíða átekta og sjá, hvor hliðin yrði úthaldsbetri.

En leikhúsgangan varð þeim þó ekki að tilætluðum notum, því að í stað þess að koma þeim til að gleyma ástandinu í Winnipeg um þær mundir, þá varð innri þráður leiksins einmitt til þess að ýfa upp í huga þeirra mál, sem þau í seinni tíð höfðu oftast hliðr-

að sér við að ræða; en það voru lífskjör og ástand verkalýðsins. —

Vesalings Cinderella, umkomulaus verkastúlka, sem ekkert á, nema hjartagæsku, tekur að sér fjögur munaðarlaus ungbörn á stríðstímum og heldur í þeim lífinu. Hún er þó svo fátæk, og vinna hennar svo illa launuð, að hún fellur í öngvit af hungri og harðrétti. En hún hefir samúð með smælingjunum, af því að hún þekkir svo vel skortinn. Það er sú eina hlið lífsins, sem henni er kunn.

Í draumnum dregur svo höfundurinn kátlega mynd af skoðunum hennar á heldra fólkinu. Konungshjónin montin, hégómleg og einföld, skrautið frekjulegt og ósmekklegt, hirðfólkið skríðandi og flaðrandi brúðufólk, og biskupinn, í mörgæsarlíki, svo önnum kafinn að hugsa um sína eigin tign, að hann lítur hvorki til hægri né vinstri.

Þau voru óvenjulega þögul, og að leikslokum hröðuðu þau sér út og heim á leið. — Kvöldið var milt og fagurt, og bifreiðin rann mjúklega og hávaðalaust eftir strætunum. Nú sáu þau best, hvað Winnipeg var ólík sjálfri sér. Þegar alt gekk sinn vanagang, voru strætin fáfarin og róleg um þennan tíma kvölds. En nú stóðu stórir hópar af verkamönnum á hverju götuhorni; eftir gangstéttunum streymdi mannfjöldi, og þrengslin voru svo mikil, að varla varð þverfótað. Það var ekki sparibúið fólk, sem var úti að létta sér upp og leita sér að skemtun eftir unnið dagsverk, heldur var fjöldinn fátæklegt og slitlegt verkafólk. Bergljót undraðist yfir í huga sínum, hversu mörg olnbogabörn Winnipeg sýndist eiga. Svipþungt, alvarlegt og þögult gekk fólkið eða stóð, hingað og

þangað; en það var eins og þögnin væri ógnandi og ekki þyrfti nema lítið atvik til að hleypa öllu í uppnám.

Bergljót gaf þessu öllu nánar gætur, og það setti að henni óhug. Hún heyrði til verkalýðnum og í huganum fylgdi hún þeim að málum, en Elvars vegna hafði hún dregið sig í hlé, hvorki sótt fundi eða á annan hátt tekið opinberan þátt í neinu.

Hún sá, að hann var í þungu skapi, og drap því fingrunum léttilega á handlegg hans og sagði brosandi: „Engum nema Barrie hefði dottið í hug að breyta lögregluþjóni í prins.“

„Hann hefði ekki gert það, ef hann hefði þekt lögregluþjónana okkar,“ svaraði Elvar.

„Heldurðu að engir töfrar hefðu getað breytt þeim í prinsa?“

„Nei — þeir sýna best, hvers konar kóngablóð rennur í æðum þeirra, þar sem þeir standa aðgerðalausir og látast ekkert sjá, hvaða óhæfa, sem höfð er í frammi. Nú, þegar mest ríður á liðveislu þeirra, hengja þeir niður hendurnar og fylgja verkalýðnum að málum.“

„Eg get tæplega láð þeim það. Eru þeir ekki verkamenn sjálfir, og er ekki verkafólkið að gera sanngjarnar kröfur?“ mælti hún.

„Sanngjarnar kröfur!!“ tók hann upp eftir henni. „Ef það fær eitt, þá heimtar það annað. Það heimtar hærra kaup, en, jafnframt því sem kaupið hækkar, heimtar það styttri vinnutíma. Og því styttri sem vinnutíminn verður, því meira svíkst það um og verður kærulausara. Sjálfsábyrgð, samviskusemi eða áhugi fyrir vinnunni þekkist ekki lengur.“

„Þetta er aðeins þín hlið á málinu. En þekkir þú

nógu vel kjör verkamannsins og hefir þér nokkurn tíma komið til hugar, að fyrir þeim flestum er öll æfin vinna, þreyta, svefn. Það er öll tilveran: að fá með naumindum haldið saman líkama og sál. Á meðan að okkur sjálfum líður vel, kemur eymd annarra okkur ekki við. Lauslega og í fjarlægð vorkennum við þeim, sem t. d. deyja úr hungri og harðrétti og erum kölluð hjartagóð fyrir. En ef það kemur óþægilega nálægt okkur, verður lítið úr meðaumkvuninni.“

„Þetta er óþarflega hörmulegur uppdráttur hjá þér. Fólkið hefir nógu hátt kaup til að geta lifað góðu lífi. En nú vill það ráða öllu, setja okkur vinnuveitendunum stólinn fyrir dyrnar; við eigum að hlýða þeirra boðum og banni. En það sýnist ekki taka með í reikninginn, að iðnaður og framleiðsla í landinu hvílir á herðum vinnuveitenda, og þeir þurfa að halda öllu svo í jafnvægi, að tekjur og útgjöld að minsta kosti standist á. Viðskiptalífið verður að byggjast á veruleika, en ekki á tómum draumum og fegurðarhugsjónum.“ —

„Fyrst eru þó draumarnir, og næst er að koma þeim í framkvæmd. Hafa ekki mennirnir öld eftir öld verið að kenna hver öðrum þessa setningu, sem tekur öllum jafnaðarkenningum fram: „Það, sem þér viljið að mennirnir geri yður, það skuluð þér og þeim gera.“ — Þegar til framkvæmdanna kemur, að breyta eftir þessu, er henni stundum snúið þannig: Það, sem þér ekki viljið að mennirnir geri yður, það gerið þér þeim. En þó er bót í máli, að jafnlengi og smælingjarnir eru ofsóttir, verður til drengskapur og mannúð, sem hefst handa, en það kostar ávalt

stríð, einhvers konar stríð, og verkfallið núna er einmitt eitt af þeim.

„Blessuð minstu ekki á drengskap og mannúð. Ef þú heldur, að verkamannaleiðtogarnir séu að þenja sig af mannkærleika, þá skjátlast þér; þeir eru að skara eld að sinni köku. Þarna gafst þeim tækifæri til að slá sér upp á því, að þykjast vera frelsispostular, — æsa lýðinn, til að ná hylli þeirra og pólitísku fylgi. Hvað hafa þessir menn, sem blása hæst, gert fyrir fólkið?“

„Mikið! — Hvernig voru kjör verkafólksins áður en verkamannafélög voru mynduð? Það átti alt undir harðstjórn eða þá göfugmensku vinnuveitenda.“

„Já, og nú er verkalýðurinn að sýna göfugmensku sína, hótar öllu illu, ef ekki er gert alt, sem þeim þóknast, og vita þó um ástandið í landinu núna. Það er ekki frítt við, að maður missi tiltrúna á ráðvendni, sómatilfinning og göfugmensku fjöldans.“

„Elvar, ef þessu heldur áfram, verður uppreist. Er ekki hægt að miðla málum?“

Hörkusvipur, sem hún átti ekki að venjast, kom á hann um leið og hann svaraði:

„Nei, fólkið þorir ekki að gera upphlaup, því að það veit, að þá verður herliðið boðað út.“

Herliðið! — Henni stóð stuggur af orðinu — bræður og synir verkamannanna — óhugsandi — skammarlegt!

„Hermennirnir hlýða því ekki að berja á sínu eigin fólki, — alþýðunni; þeir taka höndum saman við hana. Sagan sýnir, að ef fólkið legst á eitt, þá er það voldugt afl, líkast stórfljóti í vorleysingum. Engan grunar þann kraft, er þar býr, uns straumurinn, þung-

ur og sterkur, hrífur alt með sér, sem fyrir er, út í vilt iðukastið. Vorleysing kemur æfinlega á eftir, jafnvel hinum lengsta vetri — og líka í hugum fólksins. Stjórnarbyltingarnar bera þess ljósast vitni."

„Jú, og eina vörnin er herinn, en hann verður ekki boðaður út fyr en í síðustu lög."

Bergljótu setti hljóða, henni hraus hugur við þessu öllu. Svo svaraði hún í köldum og þurum rómi:

„En sú mannúð — þegar við komum til dyra eins og við erum klædd og öllum slæðum er svift í burtu, erum við ekki ýkja langt á undan mannætunum — aðeins dálítill munur á aðferðinni. Og svo stöndum við og hælum okkur fyrir hve langt áleiðis við séum komin í göfugum hugsjónum og kristilegum kærleika — svei!"

Þau voru nú komin heim að húsinu, sem Bergljót bjó í. Bæði voru gröm og í æstu skapi. Bergljót steig hægt ofan úr bifreiðinni, hún gat ekki fengið sig til að rétta honum höndina. Hann sat grafkyr og hélt báðum höndum um sveifina, og hún sá, að hvítnaði fyrir á hnúunum.

Svo bauð hún góða nótt, þakkaði fyrir kvöldið og bætti við um leið:

„Ef herinn verður boðaður út, til að berja á okkur verkafólkinu, skal eg ekki verða í aftasta hópnum, sem herjað verður á."

Hann sótroðnaði, horfði fast í augu hennar um leið og hann sagði:

„Þessa setningu kendi móðir mín mér ungum, og kvað vera eitt af aðalboðorðum forfeðra okkar: Með lögum skal land byggja, en ólögum eyða." Svo lyfti

hann hattinum, bauð góða nótt og bifreiðin rann hljóðlega af stað út í náttmyrkrið.

Bergljót gekk hröðum skrefum inn í húsið og til herbergis síns, fleygði kápu og hatti af sér og gekk yfir að glugganum og starði út, án þess þó að sjá nokkuð. Svona hafði þá kvöldið endað. Þeim hafði stundum áður sýnst sitt hvoru, en svona mikið hafði þeim ekki borið á milli fyr. Hún var sár við þau bæði í huga sér; þau hefðu átt að geta talað saman þykkjulaust, þó að málið væri báðum viðkvæmt. Hann var ósanngjarn, einhliða og blindur í þessum málum. Hvað var hann að tala um lögleysu; lítill vandi að vera friðsamur og löghlýðinn, þegar skór laganna kreppir ekki manns eigin tær. Setjum nú svo, að hann væri verkamaður, mundi hann vilja láta kúga sig? Nei, ástæðan er ekki ást eða virðing fyrir lögunum; það, sem eru ólög í dag, er stundum orðið að lögum á morgun — hún liggur dýpra, hún liggur í óttanum við breytinguna á mannfélagsskipuninni. Þessir menn taka fegins hendi nýjum uppgötvunum, breyttum og bættum vélum, en hugsunarháttur fólksins má ekki breytast; hann einn á að standa í stað. Því gat Elvar ekki séð þetta, ekki var hann þó sá harðstjóri, og enginn vissi betur en hún, hve hjartagóður hann var, hann, sem ekkert aumt mátti sjá. Hún gekk yfir að dragkistunni og tók upp mynd af honum og horfði á hana lengi; tárin komu fram í augum hennar, henni þótti svo innilega vænt um hann, og svo skyldi þeim nú ekki lynda. — Nei, ómögulegt! Og með valdi rak hún þá hugsun frá sér. Hún hafði að vísu séð hjónabönd stranda á ýmsum skerjum, en það var alt annað með Elvar og hana. Þar

var engin hætta, engin. Þau mundu þola að vera hvort á sínu máli einstöku sinnum. Engin hætta — á morgun, eða næst þegar þau hittust, mundu þau brosa hvort framan í annað með gætnu augnaráði, og svo væri það búið — næði ekki lengra.

Það var orðið framorðið, nóttin bauð þreyttum lýðnum hvíld. Bergljót stóð um stund og horfði upp í heiðstirnda hvelfinguna, og hún gat ekki varist þeirri hugsun, hvað alt þarna uppi var hreint og hátt og ólíkt þessari hringiðu af hatri, úlfúð og eirðarleysi, sem menn gerðu þessa stuttu æfi að. Og aumast var þó, að þurfa að játa, að hvert sem litið er í ríki náttúrunnar, er eins líf annars dauði.

Hún hrökk upp úr þessum hugleiðingum við það, að dyrabjöllunni var hringt hastarlega og hún heyrði mannamál niðri. Eftir fáein augnablik var drepið á dyr hjá henni, og húsmóðirin kom inn. Bergljót sá strax á henni, að eitthvað hafði komið fyrir. Konan stansaði fyrir innan dyrnar, og hún mundi eins og í þoku það, sem hún hafði sagt: Elvar hafði orðið fyrir bifreiðarslysi, hann hafði verið á heimleið og keyrt hratt, drengir höfðu verið í knattleik á strætinu og einn þeirra, lítill drengur, hljóp á eftir knettinum, beint í veg fyrir bifreiðina, sem kom á fleygiferð. Það var um ekkert að ræða, nema að renna yfir barnið, eða taka það ráð, sem hann gerði, að snúa bifreiðinni snögglega þvert úr leið; en vegna þess, hve hraðinn var mikill, kollsteyptist hún. Hann hafði heldur kosið hættuna sjálfur, en að barnið yrði fyrir slysi. Þetta skipti ekki augnabliki, en það kostaði mannslíf.

Elvar lá nú dauðvona á sjúkrahúsinu. Dauðvona

á sjúkrahúsinu — var það eina, sem festist í huga hennar þá. Hún varð að komast til hans strax — sjá hann lifandi — biðja hann fyrirgefningar. — Svo að hann hafði heldur kosið sjálfur hættuna en að meiða lítið barn. Og hún hafði verið að bera honum á brýn hörku. Ó, guð, láttu hann lifa, láttu hann lifa! Hálfsögð bæn, kom í huga hennar, og var hrópuð í himininn.

Hún varð að komast til hans áður en það yrði of seint. — Hann kannske lifði — guð minn góður, lofaðu honum að lifa — lofaðu honum að lifa.

Henni fanst óravegur yfir á sjúkrahúsið, en er þar kom, var hann að skilja við.

Hún stóð við rúmið hans, stilt og þögul og hélt í höndina á honum, og reyndi að horfa inn í hálfbrostin augu hans síðustu kveðjunni, en í sál hennar var angist svo djúp og sár, að þögnin ein var möguleg.

Augun stóru og fögru, störðu nú á móti henni brostin. Hún laut niður að honum og horfði á þennan frið, tignarbrag og fjarlægð, sem dauðinn merkir sína með. Fyrir örstuttri stund var hann lifandi — lifandi með öllu, sem felst í því orði — en nú, guð minn, hvar var hann nú? Sama eilífa spurningin — sama eilífa þögnin.

Ósegjanlegur harmur og örvænting greip hana, það var eins og ískaldar járnhendur nístu sál hennar. — Sama sálarangistin og uppreistin á móti dauðanum, hjá þeim, sem eftir lifa. Það var eins og hún hefði verið tætt í sundur, og stæði eftir blæðandi, titrandi af sársauka; ekki búin að átta sig á, hve miklum eða sárum — til þess var hún of yfirkomin.

í hug hennar og hjarta, og alt í kringum hana var auðn og tóm. Það var eins og hún sjálf væri dauð, aðeins lítill partur lifandi — sorgin og sársaukinn.

Og nóttin leið í vonleysi, ásökunum og gráti, eins og aðrar nætur hafa liðið um þúsundir ára, fyrir þeim, er hafa orðið að sjá þeim á bak, er þeir elskuðu.

Og hún hélt áfram að lifa og starfa, og reyna að vera hugrökk, en það veitir stundum sársauka.

Sorgin og efinn gengu henni hvort við sína hönd og fylgdu henni eins og skuggar.

Oft stóð hún og starði á gullin kvöldskýin og sólarlagið. Mundi hann vera þar, yfir á björtum löndum í vestinu, eins og Forn-Egyptar trúðu — eða hvar?

Og smám saman fór aftur að skýrast fyrir augum hennar. Hún athugaði nú lífið í kringum sig með nýjum skilningi. Hún sá, að allir höfðu byrðar að bera, sorgir og sár. Hún sá allar tegundir af mannlegu böli vera bornar með hetjuskap, og hetjunum mætti hún oft þar, sem hana síst hefði grunað.

Og henni óx meðaumkvun, þolinmæði og kjarkur við að læra í skóla lífsins. Hún sá, að þó að hennar litli heimur væri hruninn, var veröldin alveg eins björt, fögur og glöð og áður. Sólin skein eins skært, blómin uxu, fuglarnir sungu og börnin léku sér.

Hún hélt áfram — áfram. Þrátt fyrir torfærur og örðugleika, verður mannsandanum ekki haldið til baka. Þótt seint gangi, losnar sálin smátt og smátt úr læðingi.

Smámunir hverfa, og fram úr efanum, myrkrinu og sorgunum, stígur maðurinn hreinni, stærri og göfugri en nokkru sinni áður.

Bergljótu græddist kærleikur og samúð til mann-

anna á vegferð sinni, og þegar hingað var komið, hafði hún gengið langa vegu.

---

Hljómurinn steig upp til hennar, mildur, ljúfur og fagur. Inn i sál hennar streymdi fegurð, samræmi og dýpri skilningur. Tónskáldið talaði til hennar í gegnum skynsemi tilfinninganna. Hún fann að hugleysi og sjálfsvorkunn höfðu gengið að henni. Elvar var horfinn inn í eilífðina, — inn í eilífa hvíld og frið. Hún stóð að vísu áveðurs ennþá, en allir stormar líða hjá fyr eða síðar.

Og tónarnir héldu áfram að tala til hennar skýrara og betur, en nokkur mannleg tunga getur talað. Það var eins og rykvef hefði verið svift frá augum hennar og sál hennar leyst úr herfjötrum. Í hjarta hennar ríkti ró og friður.

Nú sat hún heldur ekki lengur ein; við hlið hennar var Elvar heilbrigður, ungur, lífsglaður. Augu hans ljómuðu af fögnuði og ást. Þannig mundi hann verða henni samferða um alla ófarna æfi.

Í dag hafði þeim verið lofað landsýn! Skipið skreið hraðfara áfram vestur á leið, knúð af heljarafli vélanna, svo að það nötraði og eins og færðist í aukana við hvert átakið, er það klauf öldurnar, sem freyddu og hoppuðu um hliðar þess. En aftur úr kjölfarinu freyddi græn og hvítfyssandi röstin, sem smáeyddist er fjær dró, uns hún hvarf úti við sjóndeildarhringinn í dökkbláum línum.

Í dag hafði þeim verið lofað landsýn!

Ölver gekk hratt fram og aftur um þilfarið, honum veitti ekkert af því til að geta haldið á sér hita. Morguninn var svalur, en töfrandi fagur, ekkert nema loft og lögur, eins langt og augað eygði; himininn hár og heiður og hafið vítt og blátt. Ekkert til að trufla friðinn, nema ef vera skyldi máfarnir, er svifu skínandi hvítir og sterkvængjaðir umhverfis skipið, þöglir, óþreytandi og eirðarlausir. Andar hafsins, er höfðu slegist í förina, kom Ölver í hug, í álögum eins og hann, hælislausir, en þó bundnir við tíma og rúm.

Lengst í vestri, úti við sjóndeildarhringinn, flutu fáeinir hvítir skýtoddar. Augu hans staðnæmdust oft

þar. Og hugurinn bar hann vestur miklu fljótar en skipið, hvorki tími né vegalengd töfðu þá för. Í anda sá hann bláma fyrir austur-töngum Canada, á sama hátt og þeir höfðu smá-fjarlægst, uns þeir hurfu með öllu, þegar skipið lét í haf, sem flutti herdeildina, er hann tilheyrði, til Englands fyrir meira en 16 árum.

Brennandi af áhuga — fullir af útþrá og æfintýralöngun æskumannsins, lögðu þeir þá af stað heiman að, með þá skynvillu í höfðinu, að þeir væru nokkurs konar frelsishetjur nútímans, reiðubúnir að leggja alt í sölurnar, til að leysa heiminn úr ánauð hervaldsins. —

Voru þeir ekki lánsmenn, sem féllu áður en hugsjónir þeirra liðu skipbrot, áður en fingraför stríðsins brennimerktu sálir þeirra — áður en þeim skildist, að þeir höfðu unnið fyrir gýg. Áður en þeir sáu strandið og reköld blóðhafsins, — kvalir, sorg, örvæntingu og umkomuleysi, eyðilegging og óáran á allan hátt — afleiðingar styrjaldarinnar? Voru þeir ekki lánsmenn, að sjá ekki, hve launin urðu lítil og fá fyrir líf þeirra og hugprýði?

Jú, hugprýði og fórnfýsi þeirra voru reistir veglegir minnisvarðar víða um heim. Snildarverk gerð af mannahöndum, úr köldum steini og dauðum málmi. En voru ekki minnisvarðar léttir á metaskálunum, þegar dauðinn, sorgin, þjáningarnar og skorturinn, voru vegin á móti? — Og þeim föllnu til heiðurs, — til að halda minningu þeirra og orðstír lifandi, — skipuðu stjórnarvöldin hátíðisdaga. Herforingjar, hefðarfrúr og aðrir stólpar mannfélagsins, ganga skrúðklædd í broddi fylkingar með hljóm-

sveitum, blómsveiga og bænahöld. Átakanleg og hugðnæm viðhöfn — fagurt umhugsunarefni fyrir æskulýðinn, og nauðsynlegt til þess að halda lifandi í hugum þeirra hetjuanda og ættjarðarást — fyrir næsta stríð!

En sagan endurtekur sig. Eftir öll þessi ár er hugur fjöldans að smábreytast. Stríðið er að fjarlægjast. Jafnvel að fyrnast yfir ástvinamissi. Hermennirnir, er komu til baka bilaðir og særðir, eru margir hverjir horfnir af sviðinu, fyrir löngu búið að slétta yfir leiði þeirra. Og eldra fólkið — margt af því — er misst hafði frændur og vini, farið sömu leiðina.

En þeir, sem lifa, verða að sætta sig við orðinn hlut og bera harm sinn í hljóði. —

Og nú töluðu allir um frið; það var sæmilegt og viðeigandi í kirkjum og þingsölum, — nokkurs konar mælskusamkepni um víða veröld, nokkurs konar græðiplástur á helsærða þjóðlíkami. — Því að enn gefa þjóðirnar hver annarri hornauga og brýna bussana í laumi, ef ske kynni að á þeim þyrfti að halda. Og græðgin hvískrar í kauphöllunum, að nú sé þörf á nýju stríði, til að bjarga þjóðunum frá gjaldþroti og reka á dyr viðskiptakreppuna. —

Já, þeir voru lánsmenn, er eigi lifðu það, að koma til baka vonsviknir og lífsleiðir örkumlamenn, — örkumlamenn á sál og líkama, eins og hann.

Læknarnir höfðu gert á honum kraftaverk. Hann var lifandi vottur um snild þeirra og handbragð, — allur saumaður, skorinn og skeyttur saman; það lá nærri að kalla mætti, að þeir hefðu reist hann upp frá dauðum. En Ölver flaug í hug, að það sama sann-

aðist á honum og þjóðsagan segir um Lazarus. Hann hafði horfst í augu við dauðann og var aldrei samur maður eftir.

Rekald af honum hafði einhvern veginn bjargast úr voða sprengingu í skotgröfunum og lífinu var tjónkað í hann. Þegar hann raknaði við á hermannaspítala, eftir margra vikna rugl og rænuleysi, var hann minnislaus, nafnlaus, týndur hermaður! Hvorki hann né aðrir höfðu hugmynd um, hver hann var eða hvaðan hann kom. Þannig byrjaði hann lífið á ný. Það tók hann langan tíma, vikur, mánuði og ár, að verða líkamlega slarkfær. Með andlegu heilbrigðina gekk það enn ver; hann var mjög vonlítill um að hann næði aftur taugastyrk og jafnvægi. Sama var með minnið. Þrátt fyrir ítrekaðar tilraunir læknanna, skýrðist það ekkert í huga hans. Yfir þessu grufiaði hann nótt og daga, og reyndi að leita að einhverju, er vekti hann til meðvitundar um hið liðna. Hann flæktist víða og kyntist mörgu. Stundum fanst honum, að eitthvað væri óljóst að þvælast í huga sér, — að hann væri í þann veginn að muna orð eða setningar. En svo hvarf það honum eins og löngu dreymdur draumur; og hann stóð eftir ráðþrota, þunglyndur og þreyttur, — svo þreyttur, að hann hefði tekið því fegins hendi, að gleyma öllu, og sofna svefninum langa.

Og svo, þegar hann síst varði, fékk hann minnið aftur, og með því von og nýja lífslöngun. Þá héldu honum engin bönd. Hann þráði að komast heim hið bráðasta, heim til frænda og vina, heim til landsins, sem hann unni, og sem hann átti nú von á að sjá blána fyrir á hverri stundu.

Og í huganum hélt hann áfram sem leiðir lágu vestur yfir hafið. Landið smá-rís úr ægi, sjórinn liggur stálblár og spegilsléttur; silfurhvítar ísborgir fljóta á strjálingi. Á vinstri hönd liggur Helluland, en á hægri hönd Furðustrandir. Sundin þrengjast — landsýn skýrist. Láglendin, klettóttir höfðar og hvítgráir malarkambar, líða fyrir augun, eins og hreyfimynd. Sunnan í grænum brekkum og giljadrögum standa smábýli, auðsjáanlega bygð í skjóli fyrir norðankulda og hafgolu.

Gróðurinn er smávaxinn, lækirnir silfurtærir, loftið hreint og fjarsýnið mikið. Hér og þar sér langt inn í landið, þar sem hálsar og hæðir standa, vafin mjúkum, fjólulitum fjarlægðarbláma.

Áfram lengra vestur! Golan hlýnar og loftið er ekki eins stálblátt. Gróðurinn stækkar og litirnir verða móðukendari. Þegar kemur inn fyrir eyjarnar, andar hlýtt af landi. Þar lengst í vestri upp með fljótinu mikla gnæfir Quebecborg. — Gamli kastalinn stendur þar fremst á háum hamrinum og ber við himin. Innar með fljótinu á báðar hendur liggur óslitin bygð — borgir og bæir klaustur og kirkjur.

Lengra vestur flýgur hugurinn yfir blómleg lönd, akra- og aldingarða, vestur með stórvötnunum, yfir skóga og eyðimerkur, heim til vestrænu víðáttunnar, sléttunnar grænu, er liggur í öldum eins og hafið, og á, eins og það, víðan sjóndeildarhring, er hverfur út í blámann, hvert sem litið er. Hann mintist líka að hafa heyrt, að þeir, sem kunna að rekja sköpunarsöguna aftur í óróf aldanna, fullyrði, að hér sé um hafsbotn að ræða, og að landið í kring hafi verið þakið suðurlandagróðri, þar sem risavaxin skrímsli óðu

á bægslunum fram og aftur — svipaðar skepnur og getið er um í fornsögunum, sem hann las og lærði, barn og unglingur, í foreldrahúsum.

Í anda kom hann hægt og hljóðlega heim á litla bæinn sinn. Hvér mundi aðkoman þar? Voru foreldrar hans á lífi? Eða mundi hann koma heim að auðn og endurminningum? — Æskuárin rifjuðust nú upp fyrir honum, hið fátæklega heimili foreldra hans, lítið bóndabýli; faðir hans var bæði bóndi og fiskimaður í senn, en þó til hvorugs hneigður. — En hann var bókamaður mikill og las, þegar hann komst höndunum undir og átti mikið af íslenskum bókum. Af þeim brunni drakk Ölver, eftir að hann lærði að lesa. Honum stóð enn fyrir minni, hvílík hörmung það var, að læra að stafa, hvílík dauðans leiðindi — hver mínúta var heil eilífð. Og svo, eftir að hann var orðinn lesandi, hvílíkur unaður að géta lesið og svifið á vængjum ímyndunaraflsins inn á ókunn lönd. — Oft á vorin og sumrin lá hann úti í grænu grasinu, hlustaði á fuglakliðinn, vatnaniðinn og laufaþytinn. Allir þessir hljómar runnu saman í þægilega heild, er hjálpuðu honum áleiðis inn á lönd æfintýra og sagna. Hann lifði með hetjunum, sem hann las um, barðist með þeim og hataði. Að ganga af hólmi sigri hrósandi eða falla við frægan orðstír, var jafnhrífandi. — Og marga haustnóttina lá hann hálfvakandi í rúmi sínu, er norðanstormurinn geysaði hamslaus, vatnið rauk með ölduhljóði og ægigangi, skógurinn stundi og kveinaði og drungalega þaut á þekjunni, — og lét sig dreyma, að allar þessar haustraddir væru herdunur og vopnagnýr. — Þetta hugmyndalíf hans miðaði að því, að hann varð dulur, einræn-

og dreyminn. — Foreldrar hans ólu hann líka upp þannig, að hann átti fátt sameiginlegt við fjöldann af unglingunum þar í sveitinni. Þau lögðu slíkt ofurkapp á að kenna honum íslensk fræði, móta svo sálarlíf hans, að hann yrði íslenskur, hvar sem leiðir hans lægju, og sómi hans og skylda væri að halda uppi vörn fyrir þjóðerni og tungu, en snemma rak Ölver sig á, að það var vanþakklátt verk. Í barnaskólanum, þar sem byrjað er að fara með plóginn yfir útlendingana, háði hann margan blóðugan bardagann fyrir land og þjóðerni, og buxurnar hans báru oft bestan vott um það, hvað hann lagði á sig fyrir Íslendingsnafnið. — Þegar hann var orðinn eldri og hættur að berjast, varð hann löngum að grípa þau skeytin á lofti, er beint var að Íslendingnum — Vestur-Íslendingnum. — Uppeldið hafði tekist vel; þótt hann hefði aldrei Ísland augum litið, aðeins séð það í hillingum söngs og sagna, var hann því trúr í anda og óendanlega stoltur af því og ætterni sínu. — Og með það fyrir augum, að það sæmdi Íslendingum illa að vera síðastir, var hann fljótur til svars, þegar í byrjun stríðsins, að Canada blés í herlúður og kallaði syni sína til vígvallarins. Þar gafst tækifæri til að sýna, af hverju bergi hann var brotinn. —

Og þar gafst honum tækifærið. En hve ólíkt því, sem hann hafði hugsað sér og dreymt um. — Í skotgröfunum hætti hann að dreyma. Þar varð sál hans gömul — og drauma dreymir aðeins þá ungu. En þar opnuðust augu hans fyrir svo mörgu. Þar á meðal því, að fornöldinni heyrðu ekki allar hetjur til. Hann sá alt í kringum sig hugprýði, drengskap, sjálfsfórn. — Hve margar kynslóðir hafði þurft til, að

spinna svo sterkar og bláþráðalausar sálir í fjölda þessara manna, að þeir viku ekki um hársbreidd frá því, er þeir skoðuðu skyldu sína, þótt öllu mannlegu eðli og tilfinningum væri ofboðið. — Áreiðanlega réði andinn þar yfir efninu, — þótt svo hörmulega færi, að þeir fórnuðu öllu á stalli eyðileggingarinnar.

Enn sátu sömu nornirnar og spunnu örlagaþráðinn, sem mannkyninu lærist svo lítið að greiða úr á hverjum þúsund árunum. —

* * *

Þarna lengst í norðvestri reis við hafsbrún þústa, líkust lágu, þéttu skýi. — Ölver var staddur í landsýn. — Honum varð þungt um andardrátt og hann fékk ákafan hjartslátt — og undarlegur geigur gagntók hann.

Hvað beið hans þar heima eftir öll þessi ár? Mátti hann vona, að honum græddist aftur þor og þrek til að lifa og starfa? Að þar heima, í sólskininu og víðlendinu, andaði því heilnæmi og gróðurmagni í hina sjúku sál hans, að hann fyndi aftur frið og jafnvægi, — og traust á samtíðinni? — Eða átti hann að greiða skuldina að fullu, — ferðast það, sem eftir væri æfinnar, landflótta og flakkandi — flak með ógnandi skugga ömurlegra endurminninga sér til fylgdar?

— — —

Friður á jörð og velþóknun yfir mönnunum liggur eins og hljómur í loftinu í kvöld. Jóladýrðin er alstaðar auðsæ. Jólahugurinn og jólagleðin eru á fleygiferð, hvert sem litið er.

Hér stend eg við framgluggann á húsinu mínu í húminu á aðfangadaginn, og stari út á götuna og yfir bæinn. Hversdagsbragurinn er horfinn. Húsin uppljómuð og skrýdd hátíðabúningi. Jólatré, á ýmsum aldri og af ólíkum stærðum, standa ýmist utan dyra eða innan, skreytt marglitum rafljósum, er senda glitrandi geisla með öllum regnbogans litum út í rökkrið. Öll borgin ljómar eins og álfahöll í æfintýri. Og jólasveinarnir eru komnir á kreik og eru í sjöunda himni. — Unglingar og börn geislandi og ör af gjafmildi og gleði eru á hlaupum milli frænda og vina, með fangið fult af gjöfum og góðvild. Og eldra fólkið er líka á ferðinni, furðu léttfætt og kankvíst á svipinn.

Bílarnir þjóta fram og aftur, gamlir og ungir, stórir og smáir. Útslitnir skröltormar, grenjandi af gigt og elli, þvælast innan um stóreflis nýtískubíla, er líða áfram þögulir, gljáandi og hátignarlegir, eins og

12*

sæmir þeirra hefðarstandi í heimi bílanna. En allir eiga þeir sama erindið, að flytja á millt glaða gesti og góða, heillaóskir og hátíðagjafir. — Kallast er á vinakveðjum, er óma út í kvöldblæinn og ferðamannastraumurinn heldur áfram. — — Og mér verður ósjálfrátt að velta því fyrir mér í huganum, hvílíkum undra-töfrakrafti jólahugmyndin býr yfir hið ytra og innra í mannlífinu — þeirri dásemd, er tekst að láta rætast að minsta kosti einn dag á ári hverju hinn langþreyða draum mannsandans um frið og bróðurkærleika. Í nótt komumst við úr álögum, köstum af okkur tröllshamnum og verðum menskir menn. — Járnsálir hlýna og steinhjörtu verða meyr. Já, jólaeldarnir brenna áreiðanlega eins glatt í kvöld og þeir gerðu fyrir öldum síðan — og eldsneytið er það sama.

María gamla vissi hvað hún söng, þegar við vorum að tala saman um jólin og jólatilhaldið, í dag. Í langa tíð hefir hún komið heim til mín til að þvo og ræsta, þegar mér hefir legið á. Svo að við erum gamalkunnugar og spjöllum um hitt og þetta, þegar svo ber undir. Og vanalega hefi eg eitthvað til þess að brjóta heilann um, þegar hún er farin heim til sín.

Um leið og eg borgaði henni fyrir vinnuna lét eg orð falla um það, hve alt væri orðið tárhreint, fægt og gljáandi hjá henni og reglulegur jólabragur á húsinu. Hún leit upp og brosti svo einkennilega, að mér varð starsýnt á hana. Frá því að eg var barn hafði eg ekki séð svona svip á nokkurs manns andliti. Það var sami ljóminn og einlægi helgiblærinn, sem gamla fólkið fékk yfir sig í svip og látbragð á stórhátíðum. Hún var bókstaflega ummynduð, þessi slit-

lega, fátæka þvottakona. — Og eg gat ekki stilt mig um að segja við hana: Þú trúir á jólin í allri þeirra dýrð, María? Eg sé það á þér. — Hún horfði á mig með þessum helgisvip og svaraði: — Já, það geri eg — og það gerum við öll á einhvern hátt. — Og sú trú hefir aldrei brugðist þér? spurði eg. — Nei, aldrei, eg hefi æfinlega átt góð og gleðileg jól. — Eg varð hálf forviða, en svo flaug mér í hug, að vanalega væru þeir nægjusamastir, sem minst hefðu. En svo var hennar mælikvarði á jólatilhaldinu máske einhver annar, svo að eg svaraði glaðlega:

Þú telur í mig kjark, María. Margir halda því fram, nú á þessum síðustu og verstu dögum, að við séum búin að tapa jólahelginni, og sjálfum jólaandanum úr mannheimum. Og nú ríki á meðal okkar andar vana og verslunar, í öllu þessu jólatilhaldi, erli og ös.

Maður kannast við þetta, svaraði hún, en undir niðri meinar fólkið þetta ekki. Eg hafði þá skoðun einu sinni, að það væru aðeins fáir, örfáir útvaldir, sem í raun og veru héldu jólin heilög. Eg var náttúrlega ein af þeim. Svo kom fyrir mig atvik, er sannfærði mig um alt annað. Hún þagnaði andartak og eg beið eftir að hún héldi áfram, eg fann að hana langaði til að tala. — Eg hefi engum sagt frá því fyr, en nú ætla eg að segja þér það, rétt eins og það kom mér fyrir sjónir, skulum við segja.

Fyrst þegar eg fór að ganga út í þvott og húsahreinsun, gerði eg það út úr neyð. Maðurinn minn var dáinn og eg varð að halda lífinu í börnunum mínum. Eg hafði verið alin upp þannig, að eg kunni ekkert, nema allra einföldustu heimilisvinnu. Svo að

eg varð að taka til þess, sem eg kunni; fáfræðin velur ekki úr. Að sumu leyti var þetta hentugt fyrir mig hvað tíma snerti, því að eg gat ekki verið frá heimilinu alla daga.

Nú er eg búin að vinna síðan úti í fjölda mörg ár, hefi nú svo mikið að gera, að eg get hafnað og valið úr eftir því, sem mér fellur best í geð, og vinn nú bara á heimilum, þar sem öllu erfiðinu er komið yfir á rafvélar. Þegar eg hugsa til þvottabalanna og þess, að skríða á fjórum fótum við gólfþvott, þá er eg æði þakklát vélamenningunni.

Á þessu tímabili hefi eg unnið hjá fjölda fólks, kynst heimilislífi þess og hugsunarhætti. Það er hreinasta furða, hvað þvottakona getur orðið margs áskynja, án þess að ráð sé gert fyrir, að nokkuð beri henni fyrir augu, nema bara óhreinindin, sem hún á að hreinsa burtu.

Af öllum þeim mörgu heimilum, sem eg hefi unnið á, er mér eitt minnisstæðast, af því að þar leið mér verst og féll afar illa að þurfa að vinna þar. Þetta var vel stætt og álita heimili frá almennu sjónarmiði. Húsmóðirin þar var fyrirmyndar borgari, séð utan frá. Þeir, sem unnu hjá henni eða áttu einhver viðskifti við hana, þar sem hún hafði yfirhöndina, litu hana öðrum augum. Skapgerð hennar var þetta auvirðilega sambland af þýlyndi, sem flatmagar fyrir virðingum og valdi, en treður á þeim, sem minni máttar eru. Hún var ein af þessum sterku manneskjum, er undir yfirborðs prúðmensku var hörð og köld í lund, full af sérgæðingi og drambi, fyllilega sannfærð um að hún væri ímynd og persónugerfingur réttlætis og mannkosta. Eg hefi aldrei fyrir hitt eins lúa-

lega útreiknaða eigingirni og ágengni eins og í þessari konu. Hvert orð, hvert spor, hvert atvik var lagt út henni í hag. Ég fór aldrei þaðan úr vinnu, án þess að vera í illu skapi og hafa það á meðvitundinni, að hún hefði níðst á mér vinnulega. Afhent mér kaupið mitt eins og ölmusu, og á allan hátt jafnað því við jörð, er mannlegast og skást var í skapgerð minni. Umgengni við svona fólk vinnur eins og eitur í sálu manns og egnir alt það illa út. Eg var farin að bera sterkari óvildarhug til þessarar konu heldur en var holt fyrir geðsmuni mína og taugar. Svo að eg ákvað með sjálfri mér, að hætta alveg að vinna hjá henni, og senda henni boð um, að eg kæmi ekki framar. En eins og stundum vill til, grípa atvikin fram fyrir hendurnar á manni. Sú ánægja veittist mér aldrei, því að einn góðan veðurdag veiktist hún skyndilega og lá liðið lík þrem dögum fyrir jól. Jarðarförin var ákveðin síðdegis á aðfangadag.

Eg hefi ekki enn getað gert mér fyllilega grein fyrir því, hvers vegna eg fór til útfararinnar. Líklega hefir það verið forvitni að einhverju leyti, og svo kannske einhvers konar leyndur þakklætisvottur, fyrir þessa atvinnumola, sem féllu af borðum hennar, enda þótt eg væri mér þess ekki meðvitandi þá. Þegar til alvörunnar kemur, langar okkur, sem eftir stöndum, að rétta þeim förnu höndina í friðsamlegri kveðju.

Þegar eg kom, var kveðjuathöfnin byrjuð. Eg settist utarlega nálægt dyrum, en sá vel inn yfir alla kirkjuna, sem búið var að klæða jólaskrúði, lifandi grænu limi og pálmum. Vönduð líkkista, þakin blómum, stóð framan við ræðustólinn. Presturinn var byrjað-

ur að tala í þægilegum, alvöruþrungnum róm. Kirkjan var full af fólki, er sat prútt og alvarlegt í bragði og virtist hlusta með gaumgæfni. Ég sat nú svona stundarkorn og eins og tók ekki eftir neinu sérstaklega, en alt í einu áttaði eg mig á því, að eg var orðin á alt skygn. Það sýndist koma náttúrlega og alveg að sjálfsögðu, að eg var alt í einu farin að athuga hugsanir fólksins, er sat þarna framundan mér, hátíðlegt á svip. En hugsanirnar voru hreint ekki hátíðlegar, heldur ósköp hversdagslegar og persónulegar. Allir voru eitthvað að brjóta heilann um eigin hag, t. d. um viðskipti, skuldir, vinnu, atvinnuleysi, peningamál, skemtanir og alskonar strit og stríð daglega lífsins, sem allir kannast við, smátt og stórt, eftir því hvað hver og einn hafði fyrir viðfangsefni. Enginn hugsaði um dauðann, dómsdag og annað líf eða þá framliðnu, sem þetta fólk var þó áreiðanlega komið saman til að kveðja. Það mundi sýnilega enginn eftir henni. — Mér varð litið inn eftir kirkjunni og þar sá eg það, sem eg aldrei gleymi. Framan við kistuna stóð sú framliðna, að mér sýndist ljóslifandi, og mér varð það ljóst, að hún sá og skildi alt það sama og eg. Enginn af samferðafólkinu, er þarna var statt, hugsaði um hana, enginn sá eftir henni né syrgði hana, enginn elskaði hana eða vafði vinarhug. Öllum þessum hóp af fólki var öldungis sama um hana. Það var þarna aðeins fyrir siðasakir. — Og þarna stóð hún og mændi fram yfir mannfjöldann, vinalaus, einmana, gleymd, öreiga sál, komin yfir landamærin, þangað, sem enginn tekur neitt með sér, nema eigið manngildi og hlýhug annarra, sem farareyri. Hún hafði hvorugt. Jafnvel blómin á kistunni voru litlaus, ilmlaus

og dauð. Þau höfðu verið send, af því að það var viðeigandi, en ekki sem einlægar vinakveðjur.

Það greip mig sambland af skelfing og innilegustu meðaumkvun. Aldrei hefir mig langað eins af öllum lífs og sálar kröftum til að hjálpa manneskju úr nauðum. Eg hafði ekki heyrt nokkurt orð af því, sem presturinn sagði. Það var svo margþættur leikur, sem eg var að horfa á og fylgjast með. Nú varð mér litið til prestsins og eg sá, að hann var í vandræðum. Hann fann, að orð hans féllu á dauf eyru. Prestar eru eins og leikarar, næmir fyrir andrúmslofti. Og eg sá, að gamla prestinum þótti það æðiþunt, að geta ekki látið þessa drumba vikna, standandi frammi fyrir dauðanum á sjálfan aðfangadaginn.

Alt í einu var eins og leiftri brygði fyrir í huga hans og hann fann leiðina að hjörtum áheyrendanna. Jólahugsunin kveikti í anda og orðum hins aldna prests. Hann talaði af andagift og krafti eins og skáld. — Jólahátíðin varð margþætt, stór og fögur í orðum hans. Það mál snart strengi í huga áheyrendanna, álíka og þegar heillandi músik er leikin af snild. Það var sem loftslagið þarna inni léttist og yrði bjartara. Hlý samúðaralda rann á milli manna og náði líka að líkkistunni. Hálfgleymdar minningar fóru að læðast fram og stinga upp höfðinu hér og þar, þægilegar endurminningar, samfundir, bros og gleðistundir, sem tekið er eins og sjálfsagt, um leið og það er veitt. Og andi jólanna blés lífi í útkulnaðar glæður.

Mér varð aftur litið til kistunnar og þeirrar framliðnu, en hún var horfin og blómin höfðu aftur fengið líf og lit og ilm, sem angaði um alt húsið. Einhvern veginn vissi eg að öllu var óhætt, og sú feg-

insgleði greip mig, að eg fann tárin streyma niður kinnarnar. Eg tók upp vasaklútinn minn til að þurka mér um augun og þegar eg leit upp aftur hafði eg mína vanalegu sjón, en fann þó að eg mundi hér eftir sjá svo margt með öðrum augum.

Organleikarinn var byrjaður að leika útgöngulagið — og í þeim hljóm heyrði eg aðra tóna, voldugri, dýpri, heitari, lofsöngva liðinna kynslóða, er hafa verið sungnir frá aldaöðli í hugum og hjörtum þeirra, er fagnað hafa jólunum sem hátíð ljóss, friðar og kærleika.

— — — — —

Úti fyrir heldur straumurinn áfram, ljósin blika, bílarnir þjóta hjá og skóhljóð jólaboðberanna berst inn til mín. — Eg veit ekki, hvort saga Maríu gömlu á nokkurn þátt í því, en í kvöld er eg óvenju þakklát fyrir hvert hlýtt handtak, einlægt bros og ást, er ljómar úr augum vina og vandamanna. — Þeir eldar veita varanlegan yl.

Löngu dreymdir draumar mannkynsins eru nú óðum að rætast. Hér sit eg og hlusta á eina bestu hljómsveit veraldarinnar leika í feiknafjarlægð eitt af meistaraverkum risans í norðrinu, er nú kveður svo fagurlega í tónum, að sá heimur, sem skyn ber á, leggur við eyrun og undrast, undrast og dáir þann skapandi, máttuga anda, þá voldugu rödd, er hljómar sem söngur hnattanna, sem niður undirdjúpanna, beint inn að viðkvæmasta streng mannshjartans.

Síðustu tónarnir af sjöundu hljómkviðu Síbelíusar eru liðnir hjá, horfnir út í regindjúp geimsins, þar sem þeir berast áfram á öldum ljósvakans. Eitt af töfratækjum nútímans, hljómgjöllin, breytti stofunni minni þögulu um stund í sönghöll, — en nú er hljómkviðan þögnuð, og í hennar stað hlusta eg með ef til vill enn næmari eyrum á raddir haustsins, er úti fyrir kveða við raust grafsöngva sumargróðri og sólbjörtum dögum.

Norðan-stormurinn fer hamförum í kvöld, hvín og ýlfrar í hverri gátt, blæs ís á gluggarúðurnar og dregur frostrósir með freðnum fingrum. Snjórinn

þyrlast og laufvana trén veina og stynja undan ofsa stormsins. —

Þessir hljómar storms og strengja hafa kveðið óró og þunglyndi inn í huga minn — vakið hálfgleymdar minningar og myndir, er svífa fyrir innri augum, svipað hreyfimynd — sumar skýrar, aðrar hálf-þokukendar. Og eins og hreyfimyndin er aðeins skuggi þess veruleika, er átti sér stað, þegar hún var gerð, eins eru minningar liðinna atburða aðeins skuggamyndir veruleikans, sem aldrei verða höndlaðar, nema í sálu manns.

Eg veit ekki hvort á sterkari þátt í því, gnýr stormsins úti eða hin þróttmiklu og alvarlegu tónljóð Síbeliusar, að gamli vinur minn, Þormóður, stendur mér svo skýrt fyrir hugskotssjónum, að mér finst næstum því, að hann sé hér í heimsókn hjá mér í kvöld. Ef til vill er það þó hljómkviðan.

Hann var fyrsti maður, er reyndi að segja mér frá þess konar músik. Og þar að auki hefi eg oft áður tekið eftir því, að músik minnir mann svo oft á fólk, sálarlíf þess og kendir. Stoltið, þrótturinn, alvaran, einmanalegt þunglyndi og hlýleiki, þessi lyndiseinkenni norrænna manna, voru eins greinileg og auðfundin í hugsanalífi og skapgerð Þormóðs, og þau eru auðheyrð í tónljóðum Síbelíusar.

Og veðrið í kvöld minnir mig líka á annað haustkvöld fyrir löngu síðan, sem varð mér sérstaklega minnisstætt fyrir heimsókn Þormóðs og samtal við hann.

Það var liðið töluvert fram á vökuna, þegar hann kom, kaldur, hrakinn og fannbarinn. Hann hafði tapað af sér hattinum og snjódrefjar héngu í þykku, grá-

kembdu hárinu. Vanalega var Þormóður hress og glaður í bragði. En þetta kvöld var eins og yfir honum lægi eitthvert þyngslafarg, og hugurinn væri langt í burtu. Eg mundi alt í einu eftir því, að eg hafði heyrt einhvern ávæning um, að hann hefði orðið veill á geðsmunum á yngri árum, en engan trúnað lagt á það, því að maðurinn var áreiðanlega andlega hraustur.

En af því að eg þekti hann svo vel, sá eg að það mundi vera í honum kuldahrollur, andlega ekki síður en líkamlega. — Eg bauð honum inn í setustofuna — þar logaði glaður eldur á arni — og lét hann setjast við hlóðirnar. Hann sat þegjandi æðistund og lét logana orna sér, sneri sér svo í áttina til mín og sagði:

„En hvað hér er hlýtt og vistlegt inni, eftir að hafa verið á ferð úti í hríðinni í kvöld. Eg rölti hingað, af því að mér fanst mér hvergi vært.“

„Þú ert eins og eg, Þormóður. Það sækir æfinlega að mér á haustin; vetrarkoman fyllir mig ónotageig og kvíða.“

Þormóður svaraði eins og út í hött: „Vetrarkvíðinn er rétt ein fylgjan okkar landanna.“

„Þú trúir ekki á nein þess háttar hindurvitni, Þormóður, — fylgjur, svipi, fyrirbrigði, hugarburð, allan þennan rökkurher skammdegisins?“

Hann þagði um stund og starði í eldinn, þar til hann svaraði:

„Þetta er sama spurningin, sem eg hefi verið að velta fyrir mér í kvöld — og í rauninni til margra ára. Það má svara henni þannig, að óttanum við skammdegið, kuldann, myrkrið og skortinn hafi sleg-

ið inn hjá okkur Íslendingum og gert okkur myrkfælna, hjátrúarfulla, þunglynda og gruflandi. En svo má svara henni á annan hátt — svara því, að í rauninni trúi maður þessu öllu, af því að öldum saman hafi þessi áhrif mótað eðli og hugsanalíf þjóðarinnar. — Eg er einn af þeim, sem eru hræddir við skammdegið, hefi þó af öllum mætti reynt að losa mig við þann ótta, en ekki getað það fremur en við landann."

„Losað þig við landann! Þú, með alt ofurkappið fyrir hönd Íslendinga hér?"

„Já, eg flúði nú einu sinni frá þeim — og skammdeginu — og lærði tvent af því: að verða betri Íslendingur og það, að manns eigin hugsanir fylgja manni alt af eftir. Eg flúði hingað í kvöld undan fylgjum, en þó ekki neinum skottum eða mórum, heldur mínum eigin geðsmunum og þunglyndi, sem stafar af endurminningum um þetta sama kvöld fyrir mörgum árum. — Eg tapaði jafnvæginu þá út úr ofsa-geðshræringu og sorg. — Eg er að hugsa um að segja þér frá því, eins og það skeði, svo að þú verðir mildari í orði næst þegar okkur lendir saman út af löndunum hérna, og þér þykir alt gott og blessað, sem þeir gera."

Svo að þarna kom það, sem mig hafði stundum grunað, að einhver sérstök ástæða lægi bak við það, hve hvassorður Þormóður var oft, ef honum fanst landar okkar verða sér til skammar — eins og hann komst að orði.

Þormóður tók nú upp þráðinn aftur og sagði: „Eins og eg hefi svo oft sagt þér frá áður, þá fluttist eg hingað vestur snemma á landnámsárum Íslendinga, þá liðlega tvítugur að aldri. Eg ólst upp á góðu sveita-

heimili, þar sem ríkti *heilbrigður* hugsunarháttur, stjórnsemi, reglusemi og dugnaður. Mér leið þar vel og átti við gott að búa, en það var mér ekki fullnægjandi. Útþráin söng mér í eyru sín hafgúuljóð. — Og eg hlýddi þeim söngvum og lagði af stað með nesti og nýja skó í leit eftir frægð og frama. En nestisskjóðan mín var fremur létt, eg hafði ekkert lært til undirbúnings undir lífið, nema þessa algengu fermingarfræðslu og óbrotnu sveitavinnu. — Með þetta lagði eg af stað út í nýja veröld, eins og ófæddu börnin hans Maeterlinck's þegar þau leggja af stað til jarðarinnar með pinkil af forlögum.

Þegar hingað kom var landið hér vestra lítt numið: Winnipeg að kalla mátti smáþorp. Sléttan óplægð, visundar gengu enn lausir og Indíánarnir voru ekki búnir að átta sig á því, að óðalsréttur þeirra var genginn í greipar hvíta mannsins. Skipsfarmar af útlendingum voru fluttir inn í landið, brennimerktir sem aðflutt vinnudýr og svo dreift hingað og þangað út um óbygðirnar. Og þegar þangað var komið, skildist fólkinu fyrst, að þetta var engin stássferð, sem það hafði tekist á hendur. Hér var það komið til að vekja þetta risaland af aldasvefni — til að brjóta það, yrkja og ryðja, byggja það, og búa í haginn fyrir komandi kynslóðir. — Og skilyrðin voru þau sömu og hjá tröllunum í gömlu þjóðsögunum. Ef þrekraunirnar voru ekki leystar af hendi, tapaði þetta fólk engu fyrir nema lífinu. Okkur varð það ekki öllum auðið, að tína saman og telja rétt fjaðrirnar í sæng tröllskessunnar.

Þegar eg kom hingað var verið að leggja járnbrautina þvert yfir landið, og var eg einn af þeim, er fékk

atvinnu þar. Hvílíkt risa-mannvirki þar var á ferðum, er víst fáum ljóst, nema þeim, sem að því unnu. Þar var alt lagt í sölurnar til að yfirvinna torfærurnar og erfiðleikana, ekki einungis ótakmörkuð auðæfi landsins, einstaklinga og félaga, heldur og endalaust strit og erfiði, og ótal mannslíf, er þrekvirkið tók að fórn. — En á bak við það alt stóð stórfengleg hugsjón, er sá í brautarlagningunni lífæðakerfi þessa víðáttumikla lands, er veitti inn lifandi straumum, og reisti í auðninni borgir og þorp og blómleg héruð.

Slík þrælavinna og þessi var mér áður ókunn, en eg var ungur og hraustur, lifði það af og vandist við vistina. Á vetrum var eg hér í Winnipeg og grendinni hjá löndum mínum. Hér kyntist eg og trúlofaðist ungri, íslenskri stúlku, sem eg unni hugástum með ákafa og einlægni unglingsins. Hún var ein sér og umkomulaus, eins og eg, vann í vist — því að um annað var þá ekki að ræða fyrir stúlkur.

Við höfðum ákveðið að gifta okkur að haustlagi, þegar eg kæmi heim úr sumarvinnunni, Og búskapinn ætluðum við að byrja mestmegnis með framtíðarvonum. Mér dvaldist óvenju lengi fram eftir haustinu og ferðin heim gekk seint. Síðasta áfangann gekk eg. Eg fór eftir gömlum Indíána-troðningum, sem voru styttri en aðalvegurinn. Það var komið undir dagsetur, eg var orðinn svangur og þreyttur og ætlaði að stansa á leiðinni, nokkrar mílur utan við Winnipeg, hjá íslenskri fjölskyldu, sem seldi ferðafólki máltíðir og annan greiða. Þar var oft gestkvæmt af Íslendingum, því að húsakynni voru þar heldur rýmri en alment gerðist þá. Eg hafði komið þar nokkr-

um sinnum áður, en féll hvorugt hjónanna vel í geð. Húsbóndinn var vel greindur, en grófgerður og tveggja handa járn. Húsfreyjan var aftur á móti ein af þessum dauðans hengilmænum, sem maður undraði sig á að gekk og talaði sjálfkrafa.

Myrkrið var skollið á, og illhryssingslega krapahríð sleit úr loftinu. Það kveinaði og þaut ömurlega í skóginum og trén sveigðust fyrir vindhviðunum. Stórir, þungir og hálf-frosnir regndropar héngu neðan í greinunum, og drupu hægt og hægt með löngu millibili til jarðar. Það var eins og lauflaus trén væru gamalmenni að gráta. Laufin lágu blaut og hálf-frosin, eins og þykk ábreiða kringum rætur trjánna. Þau voru horfin til jarðar og á hraðri ferð að verða að dufti, en andinn — hann þarf hvergi að vista, því að trén hafa víst engan anda. — Og þó koma stundir, sem láta manni skiljast, að við erum aðeins örlítill hluti úr alheimsheildinni, og finnum skyldleikann og samræmið með öllu lífi jarðarinnar. Svona hugsanir þvældust hálf-óljóst í meðvitund minni þarna í myrkrinu og óveðrinu. Í sama bili grilti í ljós. Eg var kominn þangað, sem ferðinni var heitið. Mig bar að garði að húsabaki og gekk þar að dyrum. Hurð var hallað að stöfum, en ekki læst. Eg gekk inn og læsti á eftir mér. Þessi skúr var upphaflega íbúðarhúsið, bygður úr bjálkum, en nú hafði verið bætt framan við annarri íbúð, stærri og rúmmeiri úr söguðum við, og þessi aðeins notuð til geymslu. Eg stóð nú þarna einn eins og andartak, og þótt eg væri kominn í húsaskjól, var eg enn með þessari ónotalegu kvíðatilfinningu, sem greip mig í skóginum. Eg heyrði mannamál, hávaða og harmonikuspil

innan úr borðstofunni. Þetta var laugardagskvöld, og það var ofur eðlilegt, að fólkið væri að leika sér, mætast hjá kunningjum sínum og gera sér glaða stund. Þegar dálítið skýrðist fyrir augunum á mér, sá eg, að ljósglætu lagði undan hurðinni, og gekk eg þangað, en var nærri dottinn um einhverja druslu, sem varð fyrir fótunum á mér, skamt frá dyrunum. Eg rétti mig við af fallinu og greip um leið á einhverju hörðu, ávölu, og flaug í hug, að þarna væri poki af gulrófum. Einhver ónot gripu mig samt alveg ósjálfrátt við snertinguna. — Eg drap á dyr, en enginn heyrði, svo að eg opnaði hurðina og staðnæmdist í dyrunum.

Óloft, hitasvækju, tóbaksreyk og vínþef lagði á móti mér. Hálf-slompaður landi sat þar rétt innan við dyrnar og spilaði á harmoniku, reri eftir hljóðfallinu, sló fallandann með hælnum í gólfið og söng galsalega með ekki óviðfeldnum bassaróm: „Flýtið ykkur, flýtið ykkur, fljúgum, stígum rælinn ... Hljóðfærið mitt hamrar ... fjölin glamrar", o. s. frv. — Harmonikan hvæsti og tók andköf og hljóðin komu í stórum ójöfnum rokum. Nokkur pör dönsuðu kappsamlega á gólfinu. Í horninu andspænis dyrunum sat húsbóndinn ásamt nokkrum eldri mönnum, við drykkju. Báru þeir með sér að vera töluvert við skál. Húsbóndinn þuldi ljóð og var hægt að ráða í, hvaða tegund af vísnagerð var efst á teningnum, ef dæma mátti eftir svip, augnaráði og dónalegum hlátrum. Eg sá þetta alt á augabragði, um leið og eg stansaði andartak í dyrunum, tók ofan húfuna og kallaði glaðlega: „Gott kvöld!" Húsbóndanum varð litið til dyranna, og eg hefi aldrei á æfi minni séð eins skjót

svipbrigði. Hann spratt á fætur og andlitið á honum storknaði af skelfingu. Það var engu líkara en að hann hefði séð draug eða einhvers konar ófreskju standa í gættinni. Það fór eins og leiftur um stofuna, öllum varð litið til dyranna og öllum sýndist verða álíka felmt við að sjá mig. Þarna sló öllu í þögn, ónotalega þunga dauðaþögn, og þeir sem voru að dansa, stóðu í sömu sporum, eins og stirðnaðir. Það fór um mig ónotahrollur. Hvað var að? Ósjálfrátt hopaði eg á hæl og sneri mér til hálfs fram í skúrinn, til að hrista af mér krapann. Ljósið úr stofunni féll á skakk fram um dyrnar og þar á bekkskrifli lá stúlkan mín liðið lík. — Brekánsræfill var breiddur ofan á hana, en hafði hálfdregist ofan af andlitinu og brjóstinu. Um það var eg nærri dottinn, þegar eg var að þreifa mig áfram í myrkrinu og handleggurinn á henni var það, sem eg snerti um leið og eg varðist fallinu. — —

Stundum er eins og einhver miskunnsöm hönd dragi tjaldið fyrir sviðið, þegar mannlegum tilfinningum er ofboðið. Eg man ekkert eftir því, hvað fram fór eftir það, fyr en komið var langt fram á vetur. Þá komst eg til sjálfs mín og mér var sagt, hvað hefði komið fyrir.

Stúlkan mín hafði verið á leiðinni til kunningjafólks síns, sem bjó lengra burtu. Varð bráðkvödd á veginum og flutt þarna heim, þar til líkinu yrði ráðstafað. Hún var þarna öllum óviðkomandi og því engum harmdauði. Og dansinum mátti auðvitað ekki fresta. En fyr mátti nú vera skrílshátturinn! —

Veturinn leið, og um vorið fór eg aftur út í brautarvinnu. Hér var mér ómögulegt að una. Mér var

líka kunnugt um, að vinnan þar gaf ekki langan tíma til sjálfsvorkunnar. Fyrst í stað var í mér uggur við sjálfan mig. Eg var úthaldslaus, uppstökkur og ekki hálfur maður til vinnu. En svo smá-komu kraftarnir til baka.

Þar voru saman komin allra þjóða kvikindi, menn af öllum stéttum og stigum, alla leið frá reköldum mannfélagsins upp til þeirra, er síðar skipuðu æðstu sæti þjóðfélagsins. — Og ýmislegt gekk nú á, því að þarna voru margir drengir „glaðir ok reifir". — Eg hélt mér utan við alt, sem kallast gat félagslíf, sumpart af því, að eg hafði ekki geð í mér til að taka þátt í ýmsu, er þar fór fram, og svo af því, að eg var sjálfur gleðisnauður. Í einrúmi var eg að reyna að sætta mig við orðinn hlut, feta mig áfram hugsanalega, smástígur og óviss, en skelfing var það oft erfið ganga. Hugurinn hafði líka svo lítið svið til að reika um, og snerist þess vegna of mikið um sjálfan mig. Eg hamaðist við vinnuna, því að með sjálfum mér ákvað eg samt, að verða ekki að mannleysu og ræfli. Eg stóð og mokaði dag eftir dag og reyndi að kasta burtu einhverju af sortanum úr sál minni með hverri rekufylli. Og á vissan hátt tókst mér það.

Þá byrjuðu fyrst að gera vart við sig spurningar í huga mér, viðvíkjandi flutningi okkar Íslendinga hingað vestur um haf, — hvaða þýðingu hann mundi hafa fyrir manngildi okkar og orðstír, hvort við mundum ganga hér á mála sem frjálsbornir menn eða skipa bekk með þýjum. — —

En svo alveg að óvörum beindist hugur minn inn á aðrar brautir um tíma. Þarna vildi mér það lán til, að kynnast manni, sem veitti heilbrigði og nýju

lífi inn í hugsanalíf mitt, opnaði fyrir mér óþekta veröld og benti mér inn á lönd lista og fegurðar, — lönd, sem eg að vísu hafði haft óljósa löngun og þrá eftir að kynnast, en voru mér eins fjarlæg og stjörnurnar.

Það var rétt fyrir hendingu, að eg komst í kynni við þenna mann, því að hann vann við annað, með öðrum hópi manna. En eg hafði séð honum bregða fyrir þar, og ef til vill var það prúðmenska hans, sem dró athygli mína meira að honum, en flestum öðrum, sem eg þó oftar sá og umgekst. Kannske líka einhver innri rödd hafi hvíslað að mér, að þarna væri óvenjuleg sál á ferðinni.

Einn sunnudagsmorgun var eg á rölti úti við einn míns liðs, og þá mætti eg honum fyrst augliti til auglitis. Hann kom þar á móti mér, klæddur léttum sumarfötum, og mér þótti maðurinn aðlaðandi. Hann sá víst eitthvað í svip mínum, því að hann stansaði við og sagði brosandi á íslensku: „Góðan daginn — þetta er fagur morgunn.“ Eg tók kveðju hans, en hálf-gapti af undrun og spurði: „Ert þú Íslendingur?“

„Já, og eg hefi vitað æði-tíma, að þú ert landi.“

„Hvernig?“ spurði eg.

„Heyrt það á mæli þínu. Eg hefi heyrt þig bregða fyrir þig íslensku, þegar þér hefir legið á kröftugum orðum. — Og svo berðu það greinilega með þér, af hvaða kyni þú ert kominn,“ bætti hann fljótlega við.

Við töluðumst nú við æði-lengi, og þarna um morguninn byrjaði sú þægilega vinátta, er hélst okkar á milli alt sumarið. Eg lét ekkert tækifæri ónotað, að ná honum í samtal, því að eg fann fljótlega, hvað vel hann var að sér og víða heima. Hann sagði mér

meira um músik, skáldskap, bókmentir, leikhús og söfn en heilinn á mér var fær um að taka á móti. Þegar svo lá á honum, las hann upp ljóð, sagði mér heila leiki og löng skáldverk og sýndi mér um víða veröld bókmenta og lista. Hann vakti mig með þessu til áhuga og lífs, hvatti mig til að vitkast og þroskast, kynna mér og njóta einhvers af þeim arfi, sem meistararnir hafa eftirlátið kynslóðunum. — „Farðu og glímdu við þá, drengur minn," sagði hann, „það eykur kraftana, að glíma við drottin."

Þeim ráðum reyndi eg að fylgja eftir mætti. Þegar vinnu lauk á brautinni um haustið, hélt eg austur á bóginn — suður í Bandaríki, og ílentist þar. Lengst af dvaldi eg í New York. Þar, og víðar syðra, gáfust mér tækifæri til að kynnast þeim heimi, sem vinur minn hafði sagt mér frá. Eg las alt, sem eg kom í lóg, sótti sönghallir, leikhús og söfn, og fann aftur, þó einkum í músik, lífsgleði og þrótt, enda aflaði eg mér þar þó töluverðrar þekkingar.

Í mörg ár sá eg hvorki né heyrði nokkurn Íslending, en oft komu þeir mér í hug. Eg hugsaði heim, en þó oftar vestur á sléttuna. Og eg fann, að einhvern tíma mundi löngunin til að reika þar aftur um fornar slóðir, fá yfirhöndina.

Eitt sinn sem oftar var eg staddur í myndasafni og rak mig þar á mynd eftir Anders Zorn. Myndin var af söngvara með gígju. Þarna var söngþrá og skáldhneigð norrænna manna snildarlega sýnd í hverri línu. Og eg stóð lengi og athugaði myndina. Skáldið ljómaði af svip og úr augum, og röddin var mikil og fögur. Eg heyrði tónana — eg heyrði Heimi slá hörpuna, til að sefa grát og vernda hið unga líf.

— Eg heyrði söngvaseið Gunnars, þegar hann stakk dauðanum svefnþorn á efstu stundu með hörpuleiknum, meðan hann sló síðasta sönginn, kvaddi minningu Brynhildar og harmsögu ættar sinnar. Og eg heyrði ótal raddir, er urðu fyrir eyrum mér sem ein samstilt heild sterkra hljóma, og þar var þó ein röddin skýrust, sú rödd hrópandans, er til okkar kallar úr okkar eigin söngvum og sögum og öldum saman hefir talið í okkur orku, vit og mannlund. — Eg heyrði tónana og kannaðist við lagið hjá söngvaranum. — — Sterk löngun brann mér í sál og sinni, að heyra aftur mína eigin tungu talaða og dvelja með því fólki, sem eg heyrði til. Sú löngun kom að vísu ekki alt í einu, heldur hafði hún verið að smámagnast um lengri tíma. Skömmu síðar tók eg mig svo upp og flutti hingað vestur til Winnipeg aftur. Líf Íslendinga hér hafði tekið margs konar framförum. Nú var þeim það fyllilega ljóst, að með eigin frammistöðu yrðu þeir að halda skildi fyrir þjóðerni sínu. — — En vitaskuld komust ekki allir heilir hildi frá úr þeirri orustu, er háð var við lítilsvirðingu, andlega kúgun og vantraust á sínu eigin manngildi. — — En illu heilli hafa Íslendingar hingað flutt — eða finst þér það of djúpt tekið í árinni — ef sporin, sem þeir skilja hér eftir, sýna ekki, að þar hafi þó verið menn á ferð. —

— — — — —

Síðan eru liðin mörg ár. Þormóður er fyrir löngu kominn í landnemahópinn, sem á undan er genginn. En ósjálfrátt verður mér að spyrja: Hvað mundi hann hafa heyrt í hljómkviðu Sibeliusar í kvöld? — Sjálfsagt miklu fleira en eg. — Og eg sé gleði hans,

ef hann hefði mátt hlusta og vita, að ennþá er kveðið fagurlega norður þar, og harpan slegin af máttugum höndum.

Börnin voru öll horfin út úr skólanum, glöð og geislandi yfir þessum litla jólaglaðningi, sem kennarinn hafði efnt til fyrir þau, og engu síður yfir fengnu frelsi, að sleppa við skólagöngu, kennara og lærdóm um stundarsakir. Kennarinn var líka feginn þögninni og friðnum. Hún sat nú ein eftir við skrifborðið sitt og var að tína saman ýmisleg plögg, sem hún ætlaði að taka heim með sér. Og hún var engu ófegnari en börnin, að fá fáeina hvíldardaga frá kenslustörfunum. Hún var fremur veikbygð stúlka, fölleit og þreytuleg og æfinlega orðin útþvæld um það bil, að frídagarnir fengust. Satt að segja var hún orðin afskaplega þreytt á kenslu. En svo varð fólk þreytt á öllu, sem það gerði of mikið að.

Henni varð litið á smábögla, sem lágu á skrifborðinu, það voru jólagjafir til hennar frá börnunum, fátæklegar, en gefnar af heilum hug, og jólaóskir skrifaðar með óæfðum barnshöndum, sumt aðeins læsilegt, en einlægni og ást barnanna skein út úr hverju orði, sem hún las.

Hún tók ofurlítinn böggul, sem ein allra fátækasta smástúlkan í skólanum hafði laumað á skrifborðið

hennar, og opnaði hann. Í honum voru þrjár ljómandi fallegar, litlar, ilmandi gulrófur og svolítið bréf, skrifað með stórum, gisnum stöfum og miklu erfiði og hljóðaði svona:

„Kæri kennari: — Mig langaði til að gefa þér eitthvað í jólagjöf. Mamma hafði ekkert til að gefa mér. Þú sagðir okkur, að gulrófur væru hollar og góðar að borða, svo að eg hugsaði, að þér þætti þær góðar.“

Tárin komu í augu hennar við lestur bréfsins. — Elsku litla barnið — hún varð að muna eftir að segja henni, hvað rófurnar hefðu verið góðar. — Hún tók litlu böglana, bréfin og jólaspjöldin og lét í töskuna sína, en hugur hennar átti í enn meira annríki. Myndu börnin hafa sent henni allar þessar ástarhugsanir og gjafir, ef þau vissu um, hvernig hún var í raun og veru; ef þeim væri kunnugt um öll þau ósannindi, sem hún hafði haft í frammi í seinni tíð, einkum síðan hún mætti unga lækninum? Hvað ætli þau hugsuðu um hana, ef þau vissu um það alt. Hún stóð og heimtaði af þeim trúskap og sannsögli, lagði ríkt á við þau, að þar væri undirstaða allrar gæfu þeirra og framtíðar. Og henni hafði jafnvel tekist að ná tiltrú, og næstum tilbeiðslu, versta óknyttastráksins í skólanum, sem byrjaði með því, að gera henni alt til skapraunar, en var nú reiðubúinn að gera henni alt til þægðar — jafnvel heimalestur — rauðhærði, freknótti, greindi litli Knútur. Hann skoðaði sig sem hetju og leiðtoga allra hinna drengjanna í strákapörum og óknyttum, en var nú orðinn að nokkurskonar Galahad, björtum riddara, sem barðist fyrir

öllu góðu framferði og var einskonar ráðgjafi hennar í skólanum.

Og Galahad, gulrófurnar og læknirinn lágu henni þungt á hjarta. Henni var gefinn algerður trúnaður, en hún fann sig óverðuga og ótrúa með allan leikaraskapinn. Hún hafði byrjað að kalla Knút litla Galahad í skopi, henni bauð við hvað litla stúlkan var óhrein og illa hirt, og lækninn, sem hún elskaði, hafði hún leikið á.

Hún klæddi sig í yfirhöfnina og hélt af stað heimleiðis.

Foreldrar hennar, aldraðir, heilsuveilir og fremur fátækir, bjuggu í útjaðri þorpsins, í litlu húsi, sem þeir áttu. Hún sá að miklu leyti fyrir heimilinu nú orðið, og reyndi að vera foreldrum sínum góð og umhyggjusöm, en stundum, einkum þegar hún var þreytt, sóttu að henni megn leiðindi, þar til læknirinn og hún kyntust. Síðan var alt með bjartari blæ.

Við leiðindunum hafði hún reynt margskonar meðul, þar á meðal að kaupa ýmiss konar bækur, sem áttu, eftir auglýsingunum að dæma, að hjálpa fólki til að læra að lifa, læra að stjórna sjálfu sér og ná í höfn í mannfélaginu. Hún hafði keypt töluvert mikið af þessum bókum, eins og t. d. bækur um, hvernig hægt væri að ná vinsældum, hvernig menn ættu að haga sér, svo að þeir yrðu aðlaðandi, leiðandi borgarar í samfélaginu, hvernig menn ættu að tala, ganga, sitja og standa svo að aðrir yrðu hrifnir af, hvernig ætti að klæða sig, borða og bera sig til á allan hátt, hvernig konur ættu að haga sér svo að menn yrðu ástfangnir í þeim, og ein allra síðasta bókin, sem hún

hafði fengið sér af þessu tæinu, og lært utan að, voru tilvitnanir, vísupartar og orðskviðir eftir skáld og mælskumenn, sem var þægilegt og viðeigandi að bregða fyrir sig í samtali, til að sýna gáfur og lærdóm. Froðukendur sálarforði ....

Alt þetta hafði hún lesið, lært utan að og æft sig í að hafa um hönd af mikilli snild, fyrst í hálfgerðri rælni, en áður en hana varði, var hún farin að leika þetta alt í fullri alvöru, ekki síst þegar hún var með lækninum, svo að hann hafði enga hugmynd um, hvernig hún hugsaði, fann til, eða hvaða skoðanir hún hafði á ýmsum sviðum.

Svona skammarlega hafði hún leikið og skrökvað framan í manninn, sem hún elskaði og var trúlofuð.

Ósannindin voru farin að ofsækja hana eins og draugar, sem standa ógnandi í hverri gátt. Hún fann núna betur en nokkru sinni fyr, að hún varð að gera hreint fyrir sínum dyrum, hún varð að segja lækninum sannleikann .... hún varð að segja honum að hún væri alt önnur kona, en hann héldi hana vera.

Læknirinn hafði enga hugmynd um, að hún var einræn, stíflynd, bersögul, að hún kunni betur við að láta aðra hlýða sér, heldur en vera undir annarra vilja gefin. Hann vissi ekki að hún hafði ákveðnar skoðanir í trúmálum, pólitík, mannfélagsmálum, að hún var kona, sem vildi fara ferða sinna frjáls. — Þegar hún var með lækninum, lék hún samvizkulaust, fylgdi forskriftunum nákvæmlega. Hún hlustaði, með auðsærri aðdáun, á alt, sem hann sagði og samþykti alt, hvað mikið sem það var á móti

hennar sannfæringu. Hún lét hann finna óspart, hve mikla og undursamlega yfirburði hann hafði yfir hana á öllum sviðum. Og fyrir þessu féll hann flatur. — Hún var þeim báðum sárreið, þetta gat ekki haldið áfram lengur á milli þeirra. Hún var sár við sjálfa sig og fyrirleit öll þessi svik, og hún var sár við lækninn fyrir einfeldnina.

En ergilegust var hún þó yfir þessum bókum, sem fólki varð á að senda eftir, út úr einstæðingsskap, vöntun á sjálfstrausti og leit eftir andlegu samfélagi. Hvílík vonbrigði varð einmana manneskjum bókin, sem fjallaði um, hvernig menn gætu eignast vini. Hún kendi það fyrst og fremst að smjaðra og fara í kringum fólk, til þess að geta haft sem mest upp úr því á einhvern hátt. Í stað þess að sýna fram á að hrein, einlæg og óeigingjörn vinátta göfgar og stækkar menn flestu fremur. — Hvílík siðfræði. Og svona voru þær allar — andlegt drep. — —

Henni fanst nú, þegar hún loksins skoðaði sjálfa sig í krók og kring, að sál sín vera orðin æði óhrein, að hún þyrfti að hreinsa af sér sorann, að hún þyrfti að þvo sál sína hvíta, ná af henni gróminu, sem hún var útötuð af. Eitt af því var, að æfinlega, þegar læknirinn kom heim til hennar, með borgarsniði og borgarmenningu, hálfskammaðist hún sín í laumi fyrir fátæku, slitlegu, alþýðlegu foreldrana sína, sem höfðu þó gefið henni alt, sem þau gátu — og meira — og sem alt af voru að veita henni af göfgi huga og hjartna. Svona innantómur gikkur var hún orðin. Hún stundi við og tárin hrundu ótt og títt. Úr þessum álögum og vesalmensku varð hún að komast.

Þegar hún kom heim, var Galahad að moka snjó-

inn af gangstéttinni fyrir framan húsið hennar. Hún stansaði við og brosti um leið og hún sagði: — „Þetta hefi eg ætlað að gera í marga daga, en þakka þér nú lifandi ósköp vel fyrir, Knútur minn.“

Galahad leit upp, grá, greindarleg augu drengsins ljómuðu af gleði um leið og hann spurði:

„Er það nokkuð fleira, sem eg get gert fyrir ykkur núna fyrir jólin?“

Hún horfði alvarlega í augu, sem mættu hennar með trausti og aðdáun, og hún svaraði lágt:

„Já, komdu í kvöld, eg ætla að senda þig með bréf, sem eg trúi engum öðrum fyrir að þegja yfir. Er mér það óhætt?“

Bjarti og hugaði riddarinn skein út úr augum og svip sveinsins, þegar hann svaraði fast og alvarlega: „Já, eg skal gera það.“

Hún bauð Knúti inn með sér, og fór með hann fram í eldhús; þar var móðir hennar í óða önn að baka til jólanna. Þegar Knútur litli var búinn að drekka heitt kókó og borða alt, sem hann lysti af bakningum, hélt hann heimleiðis, með því loforði, að koma aftur seinna um kvöldið og taka bréfið.

Eftir að Knútur var farinn, töluðu þær mæðgurnar um daginn og veginn, hún sagði móður sinni frá ýmsu úr skólanum, sem hún vissi að gat verið gömlu konunni til skemtunar. Það skeði svo fátt í kringum móður hennar, og henni var sjaldan nokkuð gert til gamans. En á meðan hún var að tala við móður sína, var hún undir niðri að brjóta heilann um bréfið, sem hún ætlaði að skrifa lækninum, hvernig hún ætti að orða það, hvernig hún gæti sagt honum sannleikann svo að hann læsi ekki á milli línanna

hvað mikið það kostaði hana og hve heitt hún unni honum. Niðurbrotin og betlandi ætlaði hún sér ekki að fara á fund hans. Hún var ekki nógu huguð til að fara og tala við hann, segja honum undir fjögur augu frá þessum vitleysis ósannindavef, sem hún hafði flækt sig í. Nú fann hún, að það hafði verið hægra fyrir hana að byrja á þessum leik, en að komast út úr honum og losna við eftirköstin. Alt í einu rankaði hún við sér, og tók eftir því, að hún hafði ekkert heyrt af því, sem móðir hennar var að tala við hana, en um leið og hún leit til gömlu konunnar, sem var að vinna við eldhúsborðið, heyrði hún hana segja: „Farðu, barn, og legðu þig út af og hvíldu þig, þar til um kvöldmatartíma. Þú ert svo þreytt, að þú tekur ekki eftir nokkru orði, sem eg segi.“ Þarna var sannleikurinn sagður góðmannlega, þykkjulaust, sagður af hug, sem bar óeigingjarna umhyggju fyrir vellíðan hennar. Hún var ekkert ásökuð fyrir að hafa ekki lagt á sig þá almennu kurteisi, að hlusta eftir því, sem móðir hennar var að tala við hana. Það yrði besti stílsmátinn á bréfinu, — látlaus sannleikurinn. Hún stóð snögglega á fætur, strauk hendinni um vanga móður sinnar um leið og hún sagði: „Já, mamma, eg er þreytt núna, en á morgun skal eg hjálpa þér við alt, sem þarf að gera.“

Að svo mæltu gekk hún inn í svefnherbergi sitt og læsti því að sér. En hún fór ekki að sofa, heldur opnaði hún skrifborðið sitt og settist við það. Með þurum augum, en ísköldum höndum skrifaði hún bréfið, stutt, fáort, trútt. Hún sagði, að leiðirnar yrðu að skilja, því að hún væri alt önnur kona, en hann þekti og dáðist að. Hún sagði honum, hvernig hún

hefði falsað sjálfa sig og dró ekkert undan — og afsakaði ekkert heldur — sagði bara bláberan sannleikann ....

Þegar hún var búin að skrifa bréfið, slá utan um það og leggja það til hliðar þar til Knútur litli kæmi, sat hún hreyfingarlaus í stólnum og starði út í rökkrið. Hún sá æfina framundan sér, brautina liggja að litla skólahúsinu að morgni, og til baka heim að litla húsinu hennar að kvöldi, þar til hún var orðin gömul og grá fyrir hærum, og ekki fær um að kenna lengur. Það var engin glæsibraut, en sjálfstæð og heiðarleg — og sjálfri sér trú, gat hún gengið hana. —

Róleg á yfirborðinu fékk hún Knúti litla bréfið, og lagði honum fyrir að fá engum það nema lækninum sjálfum. Svo fór hún og tíndi saman allar þessar merkisbækur sínar og rit, og var að hamast við að stinga þeim í eldinn og brenna þær, þegar faðir hennar kom inn í stofuna. Hann staldraði við andartak og horfði á hana hlýlega, um leið og hann spurði: „Hverju ert þú að brenna, lambið mitt? Gáðu að þér að kveikja ekki í húsinu."

„Skólarusli," svaraði hún lágt, því að henni var þungt um mál. „Rusli," tók hún upp í huga sér, „alskonar rusli, sem eg þarf að losa mig við." Í kvöld ætlaði hún að kasta í logann ósannindum, hræsni og heigulshætti. Sú bálför ætti að hreinsa til í sálu hennar.

Faðir hennar var farinn út úr stofunni og hún sat ein þar inni og starði í logann og gætti eldsins. Hún heyrði foreldra sína talast við æðitíma inni í svefnhúsi þeirra, og svo varð alt hljótt, þau voru gengin til náða.

Hvers vegna fór hún ekki í rúmið líka? Eftir hverju

var hún að bíða? Var einhver veik von í huga hennar um að hún fengi eitthvert svar frá lækninum? Var hún að bíða og hlusta, hlusta eftir fótataki, sem hún þekti svo vel? En úti fyrir var algerð þögn, enginn á ferð. —

Vesalings heimskinginn, að vera að hlusta eftir fótataki hans. Til hennar mundi fótum hans aldrei verða stefnt framar. Hún réri fram og aftur og reyndi að halda tárunum inni. Ef hún byrjaði að gráta, var hún vís að gráta í alla nótt — hún vildi ekki láta tilfinningarnar bera sig ofurliði — hún gat ráðið við þær. Hún spratt á fætur og gekk nokkur spor fram og aftur um gólfið, og svo byrjaði hún að hamast við að taka líkamsæfingar og taldi: 1 — 2 — 3, örara: 1 — 2 — 3, enn hraðar: 1 — 2 — 3. Það gat enginn hamast svona og grátið líka. Hún var orðin sprengmóð og hætti snöggvast og strauk höndunum yfir andlitið rennblautt af tárum, sem féllu heit og þung. — Hún réði ekkert við sorg sína.

Alt í einu marraði í snjónum úti fyrir og það var hlaupið upp tröppurnar og barið að dyrum. Hjartaði í henni barðist upp í háls, og á leiðinni fram forstofuna var hún þakklát, að búið var að slökkva þar ljósið. Hún opnaði hurðina, og úti fyrir stóð Knútur, með samanbrotinn svolítinn miða, sem hann rétti henni. Hann sagðist hafa náð lækninum eftir langa bið og hann hefði látið sig stansa meðan hann las bréf hennar, skrifað svo þessar línur og beðið sig að koma þeim til hennar strax. Þegar hún var orðin ein, opnaði hún miðann með skjálfandi hendi. Hann var hripaður með blýanti í mesta flýti.

„Það er langt síðan eg sá sjúkdómseinkennin. —



Var um tíma hræddur um, að honum mundi slá inn, — er ákaflega feginn, að þetta gerði út, — kem á morgun til að líta eftir, að þetta hafi engar hættulegar afleiðingar. Ef hægt væri að ná í rauðar rósir í þessu þorpi, þá sendi eg Galahad með fangið fult af þeim til sjúklingsins. Þarf að fara núna á mínútunni til að taka á móti svolitlu jólabarni, sem fæðist einhvern tíma í nótt ofan í skort og alsleysi."

Hún hélt lengi á bréfinu og las það yfir aftur og aftur, svo bar hún það upp að vörunum, kruklað og blýantsskrifað, og bæn og þökk, sem engin orð áttu, fyltu huga hennar. Nú hrundu tárin óhindruð. — Hún gekk yfir að glugganum og horfði út, hún varð að sjá lengra og hærra en stofan gaf rúm til, og án þess að vera sér þess algerlega meðvitandi, hafði hún yfir í huga sér: „Eg trúi því, sannleiki, að sigurinn þinn, að síðustu vegina jafni." — Hún hafði yfir orðin aftur og aftur, eins og manneskjunum verður stundum, þegar eitthvert orð, eða hugtak, verður þeim að akkeri á höfugum stundum, þegar tilfinningarnar bera menn ofurliði. — — —

Þjónninn var ekki fyr búinn að sleppa töskunni úr höndunum á sér og loka dyrunum um leið og hann fór út, heldur en gesturinn gekk yfir að kommóðunni, tók ofan hattinn og athugaði sjálfan sig vandlega í speglinum. Þar sá hann mann, ungan að árum, en gamlan í útliti, holeygan, náfölan, úttærðan. Veikindi og uppgjöf voru skráð skýru letri í öllu yfirbragði. Þeir horfðust í augu um stund, með alvarlegu, rannsakandi, miskunnarlausu augnaráði, augnaráði, sem sá alt, og færði ekkert til betra vegar. Svona aumingi gat ekki átt afturkvæmt í heim heilbrigðra manna.

Hann fékk ákafa hóstahviðu; kaldur svitinn stóð í dropum á enni hans, og þegar hann tók klútinn frá munninum, var hann litaður ljósrauðu blóði. Að hóstahviðunni afstaðinni skalf hann á beinunum, eftir átökin, hann hálfstuddi sig yfir að hægindastólnum og lét fallast í hann.

Þar sat hann grafkyr langa stund með lokuð augu, og hugsanirnar komu og fóru, þungar og erfiðar eins og stríðir straumar. Stormar og ofviðri höfðu hrakið sál hans fram og aftur, en nú loksins var

óveðrinu að slota. Kraftana til að hugsa og finna til, hafði hann enn með fullu fjöri, ef til vill skarpari og næmari en nokkru sinni fyr. Hér ætlaði hann að láta staðar numið; láta ferðalagið taka enda. — —

Hann hafði nú farið svo lengi um „dökkva dala ok djúpa“, örvæntingin fylgt honum eins og skugginn hans alla daga, legið yfir honum eins og martröð allar nætur, kreist og kramið huga og hjarta langar, dimmar vökunætur, — hjálpað tæringunni til að lama lífsþróttinn, þar sem hann lá þreyttur og sveittur, barðist um af tæringarhóstanum og dreymdi hræðilega drauma, — þar sem hann lá lémagna og beið eftir næsta degi, næstu nótt, uns nóttin langa tæki að síðustu við..

Hann var ekki lengur einn af þessum bjartsýnu, vonglöðu vesalingum, sem altaf áttu von á bata, þar til þeir voru dauðir, þar til tæringin hafði sogið úr þeim síðasta blóðdropann, þar til hvítidauðinn hélt vellinum sigri hrósandi. Og svo tilhugsunin um að eiga von á að leggjast aftur í rúmið, enn einu sinni, og bíða þar þolinmóður, lifandi dauður. Og hann var lifandi dauður, hann hafði ekki lengur hugrekki til að berjast við sjúkdóminn. Lífsvonin, lífslöngunin og lífsgleðin voru allar lagðar á flótta og hann stóð eftir öreigi, sál og líkami gjaldþrota. — —

Nei, hann þoldi ekki tilhugsunina, að liggja aftur á tæringarhælinu, teymdur á eyrunum á loforðum, sem ómögulegt var að efna, loforðum, sem voru gefin fólki eins og honum, í gustukaskyni. Honum hafði verið gefið heimfararleyfi af tæringarhælinu hvað eftir annað, en eftir æðitíma þurfti hann æfinlega að fara til baka. Og nú síðast

sagði læknirinn honum að fara og taka langa hvíld, og ef hann fylgdi í öllu stranglega reglugerð heilsuhælisins, þá mætti hann hafa von um bata. Og læknirinn horfði um leið framan í hann með góðmannlegum svip og læknisaugum, sem ekki var hægt að lesa neitt úr frekar. Hann hafði hlustað á lækninn, en engu orði trúað um tilvonandi bata. Hann var svo oft búinn að hafa von um bata, von um að getað lifað, starfað, elskað, eins og aðrir ungir menn; von um að geta skapað sér sína eigin framtíð og hamingju. En allar þær vonir voru orðnar að engu. — Og læknirinn hafði sagt honum, að undir öllum kringumstæðum væri hælið eini staðurinn fyrir hann, bæði hans sjálfs og annarra vegna. Því var hann lækninum samþykkur, í huga sínum, því að hann átti enga að, var allslaus og veikin hættuleg öðrum. Svo að hann lofaði lækninum öllu fögru. En í þetta skiptið ætlaði hann að fara aðra leið.

Og mennirnir eru brjóstgóðir. Áður en hann lagði af stað, skutu kunningjar hans saman dálitlum farareyri. Í þann sjóð gaf hvað höfðinglegast maðurinn, sem var að draga sig eftir stúlkunni hans. Þar var sárasti bletturinn. Utan um ást þeirra hafði hann bygt skýjaborgir. Þeirra var engin þörf lengur, því að hún var orðin honum afhuga, var orðin hrædd við hann, eins og allir aðrir. Það var ekki hægt að lá henni það; hún reyndi að leyna því, en hann las hana eins og opna bók. Og dalirnir, sem þessi maður gaf, höfðu verið afskaplega þungir í vasa hans, en í kvöld hafði hann keypt fyrir þá farseðil inn í eilífðina. Það leysti hana frá öllum loforðum; hún gat þá gefið ást sína sem frjáls kona. Hann stakk

hendinni ofan í kápuvasann og dró upp rommflösku, sem hann hafði fengið sér fyrir þessa peninga. Og innan stundar ætlaði hann að drekka skilnaðarskál ástarinnar og lífsins. Hann mátti ekki neyta áfengis — það var forboðið epli —, en núna ætlaði hann að brjóta boðorðin og syndga.

Hann var fastákveðinn í því að stytta þetta hörmungalíf, sem sjúkdómurinn hafði þegar kveðið dauðadóm yfir. Og engum þurfti hann að standa reikningsskap nema sjálfum sér og skaparanum. Á metaskálir réttvísinnar, á móti sektinni, ætlaði hann að kasta öllum sínum kvölum og þjáningum á sál og líkama. Hann vissi, að matið yrði óvilhalt. Hann reif umbúðirnar utan af flöskunni og setti hana á borðið hjá stólnum. Í kvöld ætlaði hann að drýgja höfuðsynd — og laun syndarinnar er dauði.

Hann stóð hægt á fætur og gekk yfir að glugganum og horfði út yfir borgina. Gatan lá framundan, björt og skreytt ljósadýrðinni — gulum, grænum, bláum og rauðum ljósum — auglýsingum, sem voru skráðar með logaletri úti í kvölddimmunni.

Skínandi bjartir búðargluggar blöstu við, og lífið var á fleygiferð fram og aftur eftir veginum — lífið, sem hann hafði þráð og elskað. Hann horfði lengra út í myrkrið og sá öll ljósin, sem litu út eins og þúsundir af blikandi stjörnum. Og byggingarnar gnæfðu líkt og óljósar, svartbláar þústur eða skýjabakkar í rökkrinu. Borgin var til að sjá eins og stjörnuhaf, sem smáóskýrðist eftir því sem fjarlægðin og strjálbygðin varð meiri — haf af blikandi ljósum, og hvert ljós var heimur út af fyrir sig, þar sem lífinu var lifað á ýmsa vegu. Og ljósin skinu

öll og blikuðu í dimmunni; það var ekki hægt að greina, hvort þau lýstu yfir hamingju eða óhamingju, auð eða örbirgð, réttlæti eða ranglæti, gleði eða sorg.

Og alt í einu greip hann löngun til að ganga þarna úti á götunni með fólkinu, taka þátt í lífinu svo sem andartak, finna jörðina einu sinni enn undir fótum og hafa yfir höfði stjörnubjarta, bláa hvelfinguna — dá hina fögru jörð, áður en hann hyrfi í þögult skaut hennar um aldir alda. — —

Þegar hann kom út í umferðina, fann hann enn sárara einstæðingsskapinn, fann að hann átti ekki samleið með neinum. Svo gekk hann hægt frá gistihúsinu niður að ánni í áttina til brúarinnar, er sýndist í óljósu kvöldrökkrinu liggja eins og bogi í lausu lofti, yfir dökku, breiðu fljótinu, liggja eins og Gjallarbrú á milli lífsins og dauðans, sem þeir einir fara yfir, er eigi eiga afturkvæmt. Þar þar fáförult og hljótt og engin Móðguður sýnileg; álengdar heyrði hann æðaslátt borgarinnar. Hann gekk fram á brúna og staðnæmist þar, hallaði sér fram yfir handriðið, lét augun hvarfla, og festi í huga sér alt, sem hann sá. Það hafði fallið föl um daginn og dálitlar skarir voru myndaðar meðfram bökkunum og lágu nú silfurhvítar og skáru af við svart vatnið, sem féll á milli þeirra.

Hann starði ofan í myrkan strauminn og sá dauðann þar. Og fyrir hugskotssjónum hans svifu ýmiss konar líkingamyndir af dauðanum, eins og menn höfðu hugsað sér hann. Hann horfði á hvítar, allavega lagaðar skarirnar, og fanst hann sjá hvíta svani hefja sig upp á breiðum vængjum og fljúga út í nótt-

ina, sem feigðarboða. Hann sá hrikavaxna beinagrind, sveipaða svartri skikjku, með sigðina á lofti, rísa upp úr ánni, hann sá hvítvængjaðan engil dauðans, alvarlegan og mildan, svífa yfir djúpinu, og hann sá höfuðkúpur og krosslagðar leggjarpípur, sem hann kannaðist svo vel við af meðalaglösunum í sjúkrastofunum, en sem hjúkrunarkonurnar gættu svo vel, að aldrei lægju á glámbekk. Það var eins og hugur hans sæi alt í myndum, lifandi leifturhröðum, er flugu fyrir — myndum, sem hann hafði lifað og myndum, sem hann hafði hugsað sér að lifa, myndum, sem hann hafði dáðst að og myndum, sem hann hafði sjálfan langað til að geta fest í línur og liti, ef honum hefði auðnast að ná heilsu og kröftum til starfs og lærdóms. Það hafði oft stytt honum stundir, að föndra við dráttlist, en það sem hann reyndi að mála, fæddist andvana og í engu líkt hugmyndunum. Eina mynd hafði hann þó hugsað mest um, dreymt um nótt og dag, svo að hún fylgdi honum næstum eins og lifandi vera, svo skýrt sá hann hana í huga sér. Ein af stærstu framtíðarvonunum var, að geta einhvern tíma orðið maður til að færa hana í form og liti og blása í hana glóandi lífi. Myndin átti að sýna trú hans á sigur lífsins, á eilífa æsku og áframhald. Hann hafði þráð að geta látið þessa mynd túlka alt það göfugasta, fegursta og glaðasta, er hann átti yfir að búa í instu djúpum sálar sinnar. En þessa mynd reyndi hann aldrei að mála; marga nóttina, þegar hann vakti einn og starði út í bláinn, hafði hann unnið að henni í huganum. Marga dýrðlega nóttina hafði hann starað út í geiminn ómælanlega, óendanlega, þar sem norðurljósin flugu

í logandi sveiflum og bjartar stjörnur blikuðu og brostu. Og hugur hans sveiflaðist með norðurljósunum, hrifinn af undrafegurð næturinnar, og flaug út yfir tíma og rúm, flaug með söng hnattanna, sem huganum einum er fært að hlusta á, en engin mannleg eyru ná.

Og þegar hóstinn og líkamlegar þjáningar kölluðu hann til baka af fluginu, varð heimurinn í sjúkrastofunni honum þröngur. Í kvöld bönnuðu þungir skuggar honum flugið og myndin í huga hans var dauf í bragði og óskýr. — —

Hann sneri nú aftur í áttina til gistihússins; hann var svo þreyttur í herðunum, að hann smeygði sér úr yfirhöfninni og bar hana á handleggnum. Hann gekk mjög hægt og myndirnar í huga hans héldu áfram að koma og fara. Hann sá inn í herbergið þar sem hann bjó núna, og dauðinn sat við annan borðsendann með rommflöskuna og beið hans, en við hinn sat lífið hnípið á svip. Og lífið og dauðinn tefldu um hann og hann vissi fyrirfram hvor ynni skákina. Hann gekk nú heldur hraðar, því að kvöldgolan setti í hann hroll, og rétt þegar hann var kominn að brúarsporðinum, setti að honum ákafa hóstahviðu og honum fanst að það myndi líða yfir sig. — —

Alt í einu heyrði hann létt, leikandi fótatak á veginum fast hjá sér. Honum varð litið við, og við hlið hans staðnæmdist lítið barn, brosandi, glaðlegt og yndisfagurt. Honum flaug óðara í hug, að það hefði vilst frá heimili sínu og hann hugsaði sér að leiðbeina því. Hann brosti blíðlega og laut ofan að barninu, en honum varð orðfall og hjartað í honum tók

undarlegt viðbragð. Var hann orðinn ruglaður og farinn að sjá ofsjónir? Þarna stóð myndin hans ljóslifandi, yfirbragðið og hver einasti dráttur, hárið gullið, silkimjúkt og fínt, lá eins og geislabaugur yfir hvelfdu, háu enninu og niður með ávölum vöngunum. Hugfanginn starði hann á barnið og barnið horfði á hann björtum, fögrum augum og breiddi út faðminn á móti honum. Skjálfandi af geðshræringu kraup hann niður og vafði barnið í yfirhöfnina, til að verja það kuldanum.

Óvitinn litli var ekki hræddur við hann, heldur hjúfraði sig upp að honum. Sterk gleði greip hann og læsti sig eins og lífsstraumur um hverja taug. Honum fanst hann hafa himin höndum tekið, honum fanst, að nú bæri hann lífið og framtíðina í faðmi sér. — — —

— — — — —

Inni í litla herberginu yfir í gistihúsinu, logaði ljós alla nóttina og óopnuð rommflaska stóð þar óhreyfð á borðinu. En þeir, sem voru fyrstir á ferð yfir brúna morguninn eftir, fundu dauðan mann, sem auðsjáanlega hafði fallið niður af veginum. Hann hafði yfirhöfnina sína samanböglaða í faðminum og hélt henni fast upp að brjóstinu. — — —

